# Almanak

fyrir árið

# 1903

sem er sjöunda ár eftir hlaupár og þriðja ár eftir sumarauka.
Reiknað eftir afstöðu Winnipeg-bæjar í Manitoba,



**Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi og fleira.**

**NÍUNDA AR.**

ÚTGEFANDI ÓLAFUR S. THORGEIRSSON.



WINNIPEG,
PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJU LÖGBERGS 1902.

A þessu ári teljast liðin vera:
frá Krists fæðing 1903 ár;

frá sköpun veraldar......................5870 ár
frá upphafi Íslandsbygðar..................1029 ár
frá siðabót Lúters......................386 ár

---

Árið 1903 er sunnudagsbókstafur: D.
Gyllinital: 4.

---

Milli jóla og langaföstu eru 8 vikur og 3 dagar.

---

## Myrkvar árið 1903.

1. Hringmyrkvi á sólu 28. Mars, ósýnilegur í Ameríku, en sýnilegur í Asíu (Kína) og norðuríshafinu.
2, Tunglmyrkvi 11. Apríl, byrgir að eins nokkurn part af tunglinu; sést að nokkru leyti í Ameríku,—í Manitoba frá því kl. 3.26 eftir miðjan dag þar til kl. 9 um kvöldið; í Norðvesturlandinu frá því kl. 3.30 til kl. 8 e. m.
3. Almyrkvi á sólu 20. September, ósýnilegur hér, en sýnilegur í Suður-Afríku, Indlandshafi og Ástralíu sunnanverðri.
4. Tunglmyrkvi 6. Október. Að eins partur af tunglinu er þá yfirskygður. Sést ekki hér.

---

VENUS er morgunstjarna til 17. Septemb., eftir það kvöldstjarna.

MARS er morgunstjarna til 28. Mars, eftir það kvöldstjarna.

JÚPÍTER er kvöldstjarna til 19. Febr., morgunstjarna til 11. Sept., eftir það kvöldstjarna.

SATÚRNUS er kvöldstjarna til 20. Jan., morgunstjarna til 29. Júlí, eftir það kvöldstjarna.

*

MERKÚRÍUS er sýnilegur að morgni 26. Febr., 27. Júní, 18. Okt. og að kvöldi 17. Jan., 10. Maí og 7. Sept.

VENUS skín með mestum ljóma 12. Ág. og 24. Okt.

TUNGL JÚPÍTERS eru ósýnileg frá 21. Jan. til 19. Mars.

## Páskadagur:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1903 | 12. Apríl | 1907 | 31. Marz |
| 1904 | 3. Apríl | 1908 | 19. Apríl |
| 1905 | 23. Apríl | 1909 | 11. Apríl |
| 1906 | 15. Apríl | 1910 | 27. Mars |

---

## 20. öldin.

Tuttugasta öldin byrjaði á þriðjudag og hún endar á laugardag. Hún samanstendur af 36,525 dögum, og vantar þá einn dag til þess að þeir dagar allir geri 5,218 vikur. Mið-dagur aldarinnar er nýársdagur 1951. Af dögum vikunnar verður mánudagurinn sjaldnast. Fimtán nýársdaga ber upp á miðvikudag og fimtán upp á föstudag, en fjórtán nýársdagana ber upp á hvern hinna daga vikunnar. Á þessari öld verða hlaupár tuttugu og fimm sinnum, — fleiri geta þau aldrei verið á einni öld. Fyrsta hlaupárið verður 1904 og þaðan af 4. hvert ár, — að árinu 2000 meðtöldu. Þrisvar á öldinni verða 5 sunnudagar í Febrúar—1920, 1948 og 1976. Um 380 myrkvar á sól og tungli eiga sér stað á 20. öldinni. Þar af verða 4 sólmyrkvar á móti hverjum 3 tunglmyrkvum, eða því sem næst. Á árinu 1935 verða myrkvarnir 7 alls, og fleiri en það geta þeir aldrei orðið á einu ári, enda sjaldgæft, að þeir séu svo margir; hefir aldrei komið fyrir síðan 1823.—Á öldinni gengur Merkúríus 12 sinnum fyrir sólina,—þ. e. gengur milli jarðar og sólar og varpar skugga á hana. Merkúríus gengur þannig fyrst 12. Nóv. 1907.

---

## Til minnis um Island.

Fyrst fundið Ísland af Írum á 8. öld. af Norðmönnum 860.

Fyrst varanleg bygð hefst 874.

Fyrsta Kötlugos, er sögur fara af, 894.

Fyrstu lög og alþing sett 930.

Fyrsti lögsögumaður, Hrafn Hængsson, kosinn af lögréttu 930.

Fyrstur trúboði, Friðrik biskup, saxneskur, 981.

Fyrsta kirkja er í ritum talin bygð um 984, að Ási í Hjaltadal, en það mun sanni nær, að Örlygur gamli hafi reist kirkju að Esjubergi nálægt 100 árum áður.

Fyrstur íslenskur biskup, Ísleifur Gissurarson, 1054.

Fyrstur fastur skóli á Hólum, 1552.

Fyrstur íslenskur rithöfundur, kunnur, og faðir íslenskrar sagnritunar, Ari Þorgilsson, prestur, f. 1067, d. 1148.

Fyrsta Heklu-gos, er sögur fara af, 1104.

Fyrsta klaustur, reist á Þingeyrum, 1133.

Fyrstur konungur yfir Íslandi, Hákon Hákonarson (kon. Norðm. 1217-) 1262—63.

Fyrsta prentsmiðja á Breiðabólsstað í Vesturhópi um 1530.

Fyrstur prentari Jón Matthíason, sænskur prestur.

Fyrstur lúterskur biskup, Gissur Einarsson, 1539.

Fyrst prentað nýjatestamentið, þýtt af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, 1540.

Fyrst prentuð biblían, þýdd af Guðbrandi biskupi 1584.

Fyrsta ísl. sálmabók, sem til er, prentuð 1555.

Fyrsta galdrabrenna 1625, (hin síðasta 1690).

Fyrsta Jónsbók (Vídalíns) kemur út 1718.

Fyrst drukkið brennivín á Íslandi á 17. öld.

Fyrst drukkið kaffi 1772.

Fyrst fluttur fjárkláði til Íslands 1760.

Fyrsta organ, sett í Leirárkirkju, 1800.

Fyrsti vísir til fréttablaða, Klausturpósturinn, kemur út 1818 (Minnisverð tíðindi ekki talin, þau komu út 1796—1808).

Fyrsti árgangur Fjölnis birtist 1835.

Fyrst gefin út Ný félagsrit 1841, rit Jóns Sigurðssonar.

Fyrsta blað Þjóðólfs er prentað 1848.

# JANÚAR hefir 31 dag 1903.

| | | | [MÖRSUGUR |
|---|---|---|---|
| | | *Umskurn Krists*, Lúk. 2. | |
| F | 1 | Nýársdagur | |
| F | 2 | ........................ | Þrælahald aftek. í Bandar. 1863 |
| L | 3 | ........................ | 11. v vetrar |
| | | *Barnamorðið í Betlehem*, Matt. 2. | |
| S | 4 | *S.* e. nýár | Konráð Gíslason d. 1891 |
| M | 5 | ........................ | |
| Þ | 6 | Þrettándi (Epiphania) | ☾ f. kv. 2.56 e.m. |
| M | 7 | su. 8.24, sl. 4,46 | Knútsdagur |
| F | 8 | ........................ | |
| L | 9 | Napoleon d. 1876 | |
| F | 10 | ........................ | 12. v. vetrar |
| | | *Þegar Jesús var 12 ára*, Lúk. 2. | |
| S | 11 | 1. s. e. þrett. | |
| M | 12 | | Alfred Tennyson f. 1810 |
| Þ | 13 | Geisladagur | ○ fullt t. 7 17 f. m. |
| M | 14 | su. 8.18, sl. 5.00 | |
| F | 15 | | |
| F | 16 | British Museum op. 1759 | Finnur Jónsson biskup f. 17[illegible]3 |
| L | 17 | Ben. Franklin f. 1706 | 13. v. vetrar |
| | | *Brúðkaupið í Kana*, Jóh. 2. | |
| S | 18 | 2. s. e. þrett. | |
| M | 19 | ...... ...... ... .... | |
| Þ | 20 | Bræðramessa | ☽ Síð. kv. 4.49 f. m. |
| M | 21 | su 8 14, sl:5.06 | Agnesarmessa |
| F | 22 | Byron f. 1788 | Victoria dr d. 1901 |
| ..... | | ........................ | ÞORRI |
| F | 23 | Gustav Doré d. 1882 | Miður vetur. |
| L | 24 | Friðrik mikli f. 1712 | 14. v. vetrar |
| | | *Jesús gekk ofan af fjallinu*, Matt. 8 | |
| S | 25 | 3. s e. þrett —Pálsmessa | Kirkjufélag V.-Ísl, stofnað 1885 |
| M | 26 | ........................ | |
| Þ | 27 | Mozart fæddur 17[illegible]7 | |
| M | 28 | su. 8 06, sl. 5,17 | ☺n. t. 9 39 f.m. (þorrat.) |
| F | 29 | McKinley forseti f. 1843 | Holberg d. 1754 |
| F | 30 | ........................ | |
| L | 31 | Spurgeon d. 1892 | Guðbr. Vigfússon d. 1889 |
| | | | 15. v. vetrar |

# Syrup of Rocky Mountain Spruce.

Það er nú alstaðar viðurkent að vera besta meðalið sem til er á markaðinum við hósta, kvefi og öllum lungna-kvillum. Orðstír þess hefir breiðst út um alt landið alla leið til Kyrrahafs-strandarinnar og norður til endimarka hins mentaða heims. Síðastliðið vor fengum vér stóra pöntun um þetta meðal frá DawsonCity í Yukonhéraðinu. — Það er að miklu leyti saman sett úr kvoðu úr furuviðartegund, sem vex í Klettafjöllunum, sem gerð er að ljúffengu sírópi og blandað með squills, lakrís, viltum kirsiberjum og öðrum vel þektum heilsu-lyfjum. Í því er hvorki ópíum né önnur skaðleg efni, svo það veitir engin vond eftirköst hinni viðkvæmustu heilsubyggingu. Það er bragðljúft, það verkar fljótt og læknar kvef, hversu gamalt sem er, á stuttum tíma. Það mýkir kverkarnar og stillir hinn leiða hósta á nóttunni og gefur hinum þjáða værð og rólegan svefn.

Vér höfum mörg vottorð um ágæti þess. Lesið eftirfylgjandi bréf frá Mr. Lorne Dodd, söðlasmið í Innisfail :—

INNISFAIL, 17. okt. 1898.

Herrar mínir.—Eg hefi brúkað Syrup of Rocky Mountain Spruce, frá yður, við kvefi, sem eg fékk fyrir nokkru síðan. Eg get með góðri samvisku sagt, að sem hóstameðal á það fullkomlega skilið hinn góða orðstír, sem það hefir hlotið hér

# FEBRÚAR hefir 28 daga 1903.

ÞORRI.

*Jesús gekk á skip*, Matt. 8.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 1 | 4 s. e. þrett. | |
| M | 2 | Kyndilmessa | Baldv. Einarss. lögfr. f. 1802 |
| Þ | 3 | Blasíusmessa | |
| M | 4 | su. 7.55, sl.5.30 | |
| F | 5 | | ◐ f. kv. 3.12 e. m. |
| F | 6 | | |
| L | 7 | Charles Dickens f. 1812 | 16, v. vetrar |

*Verkamennirnir í víngarðinum*, Matt. 20.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 8 | Níuviknafasta | John Ruskin f. 1819 |
| M | 9 | ........................ | Baldv. Einarss. lögfr. d. 1833 |
| Þ | 10 | ........................ | |
| M | 11 | su.7.45,sl.5.41 | ○ fullt t. 5.58 e.m. |
| F | 12 | ........................ | Abraham Lincoln f. 1809 |
| F | 13 | | |
| L | 14 | Lúters síð. prédikan 1546 | 17. v. vetrar |

*Fernskonar sáðjörð*, Lúk, 8.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 15 | 2. s. í níuviknaföstu | JónThorsteinsen landlæknir d. [1855 |
| M | 16 | ........................ | Melankton f. 1497 |
| Þ | 17 | M. Angelo d. 1563 | |
| M | 18 | su. 7.31, sl. 5.54 | Lúter d. 1546—S. kv. 11 23e.m. |
| F | 19 | | |
| F | 20 | | |
| L | 21 | Þorraþræll | 18. v. vetrar |

*Skírn Krists*, Matt. 3.

GÓA

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 22 | Langafasta (Sjöviknaf.) | Pétursm. — Washington f 1732 |
| M | 23 | | |
| Þ | 24 | Ingemann d. 1862 | Sprengikvöld |
| M | 25 | su. 7 17, sl. 6.05 | Öskudagur |
| F | 26 | | |
| F | 27 | Longfellow f. 1807 | ● nýtt t. 3.20 e. m. |
| L | 28 | | 19. v. vetrar |

# MARS hefir 31 dag 1903.

GÓA

*Djöfullinn freistar Jesú*, Matt. 4.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 1 | . . íföstu | |
| M | 2 | | |
| Þ | 3 | Jónsm. Hólab. h. f. | 1. þing Bandaríkjanna 1798 |
| M | 4 | su. 6,55, sl. 6.24 | Imbrudagar — Sæluvika |
| F | 5 | ........................ | Oddgeir Stephensen d. 1885 |
| F | 6 | Sveinbj. Egilsson f. 1791 | ◐ f.kv. 12.14 e. m. |
| L | 7 | | 20. v. vetrar |

*Kanverska konan*, Matt. 15.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 8 | 2. s. í föstu | Jón Thóroddsen d. 1868 |
| M | 9 | 40 riddarar | Merrimac og Monitor bard. 1862 |
| Þ | 10 | | |
| M | 11 | su 6.48, sl. 6,29 | |
| F | 12 | ........................ | Séra Páll Þorláksson d. 1882 |
| F | 13 | Guðbr. Vigfússon f. 1827 | ○ fullt t. 5.13 f. m. |
| L | 14 | Sig. Breiðfjörð f. 1778 | 21. v. vetrar. |

*Jesús rak út djöful*, Lúk. 11.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 15 | 3. s. í föstu | 1. þing Manitoba fylkis 1871 |
| M | 16 | Gvöndardag | |
| Þ | 17 | Magnús Stephens. d. 1833 | Björn Gunnlaugss. d. 1876 |
| M | 18 | su. 6.33, sl. 6.40 | Hinrik Ibsen f. 1828 |
| F | 19 | ........................ | Dav. Livingstone f. 1813 |
| F | 20 | ........................ | Kossuth d. 1894 |
| L | 21 | Jafndægur. Vor byrjar. | ◑ s. kv. 7.08 e. m.—22. v. vetr. |

*Jesús mettar 5000 manna*, Jóh. 6.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 22 | Sd. í miðföstu | Göthe d. 1832 |
| M | 23 | Góuþræll | |
| | | | EINMÁNUDUR |
| Þ | 24 | Longfellow d. 1882 | |
| M | 25 | su 6.17 sl 6 51 | |
| F | 26 | ........................ | Beethoven d. 1827 |
| F | 27 | ........................ | John Bright d. 1889 |
| L | 28 | ........................ | ● n. t. 6.26 e.m. —23. v. vetrar |

*Gabríel engill sendur*, Lúk. 1.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 29 | 5. s. í föstu | Jón Eiríksson konf.ráð d. 1787 |
| M | 30 | ........................ | |
| Þ | 31 | ........................ | Bjarni Thorsteins. amtm. f. 1781 |

# APRIL hefir 30 dag 1903.

| | | | EINMÁNUÐUR |
|---|---|---|---|
| M | 1 | Bismarck f. 1815 | su. 6.02, sl.7.02 |
| F | 2 | ........................ | Emile Zola f. 1840 |
| F | 3 | ........................ | Washington Irving f. 1783 |
| L | 4 | Oliver Goldsmith d. 1774 | ◐ f.kv.6.51 e.m. |
| | | | 24. v. vetrar |

*Innreið Jesú í Jerúsalem*, Matt. 21.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 5 | Pálmasunnudagur | Dymbilvika |
| M | 6 | ........................ | Sig. Pétursson sýslum. d. 1827 |
| Þ | 7 | Channing f. 1780 | |
| M | 8 | Kristján IX. f.1818 | su. 5.47, sl. 7,13 |
| F | 9 | Skírdagur | |
| F | 10 | Föstudagurinn langi | |
| L | 11 | Leonisdagur | ○ fullt t. 5 18 e.m. - 25. v. vetrar |

*Upprisa Krists*, Mark. 16.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 12 | Páskadagur | Páskavika |
| M | 13 | Annar í páskum | |
| Þ | 14 | | |
| M | 15 | su. 5.32, sl. 7.24 | Lincoln d. 1865 |
| F | 16 | | |
| F | 17 | ........................ | Benj. Franklin d. 1790 |
| L | 18 | | Sumarmál af 26. v. sum |

*Jesús kom að læstum dyrum*, Jóh. 20.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 19 | 1. s. e. páska | ◑ s. kv. 2.30 e m.-Melankton d. [1560 |
| M | 20 | ........................ | Darwin d. 1882 |
| Þ | 21 | ........................ | Jón Hjaltalín landlækn. f 1807 |
| M | 22 | su. 5.18, sl. 7.35 | |
| | | | HARPA |
| F | 23 | Jónsm. H.b.h. s. | Sumard. fyrsti. - 1. v. sumars |
| F | 24 | Dan. De oe d. 1731 | |
| L | 25 | Oliver Cromwell f. 1599 | |

*Jesús er góði hirðirinn*, Jóh. 10.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 26 | 2. s. e. páska | Þrælastríðið hætti 1865 |
| M | 27 | Kossuth f. 1806. | ● n. t. 6.31 f.m. (sumart ) |
| Þ | 28 | | |
| M | 29 | s.u. 5.03, s.l. 7.47 | |
| F | 30 | | 2. v. sumars. |

## MAI hefir 31 dag 1903.

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HARPA |
| F | 1 | Tveggja post. messa | D. Livingstone d. 1873 |
| L | 2 | | |
| | | *Burtför Krists til föðursins,* Jóh. 16. | |
| S | 3 | 3. s. e. páska | Krossmessa á vori |
| M | 4 | ........................ | ◐ f. kv. 12.26 f. m. |
| Þ | 5 | ........................ | Napóleon Bónap. d. 1821 |
| M | 6 | su. 4.54, sl. 7.57 | |
| F | 7 | ........................ | 3. v. sumars |
| F | 8 | ........................ | J. Stuart Mill d. 1873 |
| L | 9 | Schiller d. 18(5 | |
| | | *Sending heilags anda,* Jóh. 16. | |
| S | 10 | 4. s. e. páska | |
| M | 11 | ........................ | ○ fullt tungl 6.18 f. m. [f. 1719 |
| Þ | 12 | J. Herschel d. 1871 | Bjarni Pálss. fyrsti landlæknir |
| M | 13 | su. 4.43, sl. 8.06 | Hudsonsflóafél. stofnað 1670 |
| F | 14 | ........................ | 4. v. sumars |
| F | 15 | Pétur bisk. Péturss. d. '91 | Gr. Thomsen f. 1820 |
| L | 16 | | |
| | | *Biðjið í Jesú nafni,* Jóh. 16. | |
| S | 17 | 5. s. e. páska | Tómas Sæmundss. d. 1841 |
| M | 18 | | |
| Þ | 19 | Gladstone d. 1898 | ◑ síð. kv. 8,18 f.m. |
| M | 20 | su. 4.34, sl. 8 16 | Columbus d. 1506 |
| F | 21 | Uppstigningardag. | 5. v. s |
| F | 22 | Sæmundur fróði d. 1133 | SKERPLA |
| L | 23 | | |
| | | *Þegar huggarinn kemur,* Jóh. 15. | |
| S | 24 | 6. s. e. páska | Victoria drottn. f. 1819 |
| M | 25 | | |
| Þ | 26 | JónasHallgrímsson d. 1845 | ● n. t. 3.50 e.m. |
| M | 27 | s.u. 4.27, sl. 8.24 | Calvin d. 1564 |
| F | 28 | | 6. v. sumars |
| F | 29 | Gísli Brynjólfsson d. 1888 | |
| L | 30 | Eggert Ólafsson d. 1768 | |
| | | *Sá, sem elskar mig,* Jóh. 14. | |
| S | 31 | Hvítasunnudagur | Jón Guðmundss. ritstjóri d. 1876 |

# JÚNÍ hefir 30 daga 1903.

| | | | SKERPLA |
|---|---|---|---|
| M | 1 | Annar í hvítasunnu | |
| Þ | 2 | Garibaldi d. 1882 | ◐ fyrsta kv.6.24 f.m. |
| M | 3 | su. 4.21, sl. 8.31 | Imbrud.—Sæluvika |
| F | 4 | .................... | 7. v. sumars |
| F | 5 | | |
| L | 6 | Alexander mikl.f.356f.K. | |
| | | *Kristur og Nikodemus*, Jóh. 3. | |
| S | 7 | Trínitatis | Þrenningarhátíð |
| M | 8 | .................... | Jón Hjaltalín landlækn. d 1882 |
| Þ | 9 | Charles Dickens d. 1870 | ○ fullt t. 8.08 e.m. |
| M | 10 | su. 4.20, sl. 8.37 | |
| F | 11 | .................... | 8. v. s. |
| F | 12 | W. C. Bryant d. 1878 | |
| L | 13 | .................... | Jón Sveinss. landlækn. d. 1803 |
| | | *Hinn auðugi maður*, Lúk. 16. | |
| S | 14 | 1. s. e. trín. | Sig. Melsteð lektor d. 1897 |
| M | 15 | | |
| Þ | 16 | | Jón Sigurðsson f. 1811 |
| M | 17 | su. 4.20, sl. 8.30 | ◑ Síð. kv. 11.44 f. m. |
| F | 18 | Bardag.við Waterloo 1815 | 9. v. sumars |
| F | 19 | | |
| L | 20 | | |
| | | *Hin mikla kvöldmáltíð*, Lúk. 14. | |
| S | 21 | 2. s. e. trín. | Kristján Jónss. f. 1842 |
| | | | SÓLMÁNUÐUR |
| M | 22 | .................... | Sólstöður: Lengstr dagur |
| Þ | 23 | | |
| M | 24 | Jónsmessa—Kristni lögt. | á Ísl. 1000—N. t. 11.11 e.m. |
| F | 25 | su. 4.22, sl. 8.41 | 10. v. s. |
| F | 26 | | |
| L | 27 | | |
| | | *Hinn týndi sauður og hinn týndi peningur* Lúk. 15. | |
| S | 28 | 3. s. e. trín. | |
| M | 29 | .................... | Pétursmessa og Páls |
| Þ | 30 | | |

# JULI hefir 31 dag 1903.

SÓLMÁNUÐUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| M | 1 | Dominion-dagur (1867) | ◐ f. kv. 1.02 e.m. |
| F | 2 | Þingmaríum. | Sviðhúnsm. h. f.—11. v. sumars |
| F | 3 | Quebec-borg reist 1605 | |
| L | 4 | Frelsisd. Bandaríkj. (1776) | |

*Verið miskunnsamir*, Lúk. *6*.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 5 | 4. s. e. trín. | |
| M | 6 | | |
| Þ | 7 | ........................ | Jóh. Huss brendur 1415 |
| M | 8 | su. 4.32, sl. 8.36 | Seljumannamessa |
| F | 9 | | ○ fullt t. 10.43 f.m. —12. v. sum. |
| F | 10 | John Calvin f. 1509 | |
| L | 11 | | |

*Jesús kennir af skipi*, Lúk. 5.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 12 | 5. s. e. trín. | |
| M | 13 | ........................ | Margrétarmessa |
| Þ | 14 | ........................ | Franska stjórn. bylt. 1789 |
| M | 15 | su. 4.39, sl. 8.30 | Sviðhúnsm. h. s. |
| F | 16 | ........................ | 13. v. sumars |
| F | 17 | ........................ | ◑ síðasta kv. 12. 24 e. m. |
| L | 18 | | |

*Réttlæti farísea*, Matt. 5.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 19 | 6. s. e. trín. — Þorláks- | Guðbr. bisk. Þorlákss. d. 1627 |
| M | 20 | messa á sumri | |
| Þ | 21 | R. Burns d. 1796 | |
| M | 22 | su. 4.49, sl. 8.23 | Aukanætur |
| F | 23 | Finnur Jónss. bisk. d. 1789 | 14. v. sumars |
| F | 24 | Canada fundin 1534 | ☺ n. t. 5.46 f.m — Hundadagar byrja |
| L | 25 | Jakobsmessa | |

*Jesús mettar 4000 manna*, Mark. 8.

HEYANNIR

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 26 | 7. s. e. trín. | Miðsumar |
| M | 27 | | |
| Þ | 28 | | |
| M | 29 | su. 4.54, sl. 8.13 | Ólafsmessa h. f. |
| F | 30 | ........................ | William Penn d. 1718—15. v. s, |
| F | 31 | Jon Ericson f. 1802 | Fyrsta kv. 12.15 f. m |

# ÁGÚST hefir 31 dag 1903.

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HEYANNIR, |
| L | 1 | Bandadagur | Jòn Espólín d. 1839 |
| | | *Fals-spámenn*, Matt. 7. | |
| S | 2 | 8. s. e. trín. | Benedikt Sveinsson d. 1899 |
| M | 3 | Ólafsmessa h. s. | |
| Þ | 4 | Hannes Finnsson d. 1796 | H. C. Andersen d. 1875 |
| M | 5 | su. 5 06, sl. 8.02 | |
| F | 6 | Brynjólfur Sveinss. bisk | up d. 1675 16. v. sum. |
| F | 7 | | |
| L | 8 | Canning d. 1827 | **F**ult tungl 1.54 f. m. |
| | | *Hinn rangláti ráðsmaður*, Lúk. 16. | |
| S | 9 | 9. s. e. trín. | |
| M | 10 | Lafransmessa | |
| Þ | 11 | | |
| M | 12 | su. 5.16, sl. 7 50 | |
| F | 13 | | 17. v. sumars |
| F | 14 | Napóleon I. f 1769 | |
| L | 15 | Maríumessa h. f. | **S**íð kv. 10.22 e.m. |
| | | *Jesús grætur yfir Jerúsalem*, Lúk. 19. | |
| S | 16 | 10. s. e. trín. | |
| M | 17 | | Sveinbjörn Egilsson d. 1852 |
| Þ | 18 | | |
| M | 10 | su. 5 27, sl. 736 | Gestur Pálsson d. 1892 |
| F | 20 | | 18. v. sumars |
| F | 21 | | |
| L | 22 | | **N**ýtt tungl 12 51 e.m. |
| | | *Faríseinn og tollheimtumaðurinn*, Lúk. 18. | |
| S | 23 | 11. s. e. trín. | |
| M | 24 | Hundadagar enda | Bjarni Thórarensen d. 1841 |
| | | | TVÍMÁNUÐUR |
| Þ | 25 | | |
| M | 26 | su. 5.37, sl. 7.22 | Þórður Jónass. háyfird. d.1880 |
| F | 27 | Ágústín d 430 | 19. v. sumars |
| F | 28 | Leo Tolstoi f. 1828 | Göthe f. 1749 |
| L | 29 | Höfuðdagur—Jóhannes | skírari líflát.—**F**. kv. 1.34 e.m. |
| | | *Daufi og málhalti maðurinn*, Mark. 7. | |
| S | 30 | 12. s. e trín. | Jón biskup Vídalín d. 1720 |
| M | 31 | | |

# SEPTEMBER hefir 30 daga 1903.

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | TVÍMÁNUÐUR |
| Þ | 1 | .......................... | Verkamannadagur í Canada |
| M | 2 | su. 5.48, sl. 7. | Grundtvig d. 1872 |
| F | 3 | .......................... | 20. v. sumars |
| F | 4 | .......................... | Franska lýðv.stofn. 1870 |
| L | 5 | | |
| | | *Hinn miskunnsami* | *Samverji*, Lúk.10. |
| S | 6 | 13. s. e. trín. | Fullt t. 5.20 e.m. |
| M | 7 | | |
| Þ | 8 | Maríumessa h. | Jerúsalem hertekin árið 70 |
| M | 9 | su 5.57, sl 6.51 | |
| F | 10 | .......................... | 21. v. sumars |
| F | 11 | | |
| L | 12 | | |
| | | *Tíu líkþráir*, | Lúk. 17. |
| S | 13 | 14. s. e. trín. | Quebec hert. 1759 |
| M | 14 | Krossm. á hausti | Wellington d 1852. McKinley<br>Síð. kv. 6.14 f. m. [d. 1901 |
| Þ | 15 | su 6.09, sl 6.37 | |
| M | 16 | Imbrud. *Sæluvika* | Moscow brend 1812 |
| F | 17 | .......................... | 22. v. sumars. |
| F | 18 | Garfield d. 1881 | |
| L | 19 | | |
| | | *Enginn kann tveimur herrum að þjóna*, | Matt. 6. |
| S | 20 | 15. s. e. trín. | Nýtt t. 7.31 e.m. |
| M | 21 | .......................... | Walter Scott d.1832 |
| Þ | 22 | | |
| M | 23 | u. 6.19, sl. 6.21 | Snorri Sturluson d. 1241 |
| | | | HAUSTMÁNUDUR |
| F | 24 | .......................... | Jafndœg. Haust byrjar. 23. v. s. |
| F | 25 | Björn Gunnlaugss. f. 1788 | |
| L | 26 | | |
| | | *Sonur ekkjunnar* | *í* Nain, Lúk. 7. |
| S | 27 | 16. s. e. trín. | |
| M | 28 | L. Pasteur d. 1895 | Fyrsta kv. 6,08 f. m. |
| Þ | 29 | Mikaelsmessa | |
| M | 30 | | |

# OKTÓBER hefir 31 dag 1903.

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HAUSTMÁNUÐUR |
| F | 1 | ........................ | 24. v. snmars |
| F | 2 | Fyrsta járnbr. í Banda- | Pétnr bisk. Pétursson f. 180 |
| L | 3 | [ríkj. fullgerð 1833 | |
| | | *Vatnssjúki maðurinn*, Lúk. 14. | |
| S | 4 | 17. s. e. trín. | |
| M | 5 | | |
| Þ | 6 | Eldadagur. | Fullt t. 10.27 e.m.- Tennyson d. |
| M | 7 | su. 6.43, sl. 5.49 | Edgar A. Poe d. 1849 [1892 |
| F | 8 | ........................ | 25. v. s. |
| F | 9 | Chicago brann 1871 | |
| L | 10 | Kruger (forseti) f. 1825 | |
| | | *Hvers son er Kristur?* Matt. 22. | |
| S | 11 | 18. s. e. trín. | |
| M | 12 | ........................ | Columbus f. Ameríku 1492 |
| Þ | 13 | ........................ | S ðasta kv 12.56 e. m. |
| M | 14 | su. 6.53, sl. 5.37 | Kalixtusmessa |
| F | 15 | ........................ | 26. v. sumars |
| F | 16 | | |
| L | 17 | | |
| | | *Limafallssjúki maðurinn*, Matth. 9. | |
| S | 18 | 19. s. e. trín. | Lúkasmessa |
| M | 19 | ........................ | Jonatan Swift d. 1745 |
| Þ | 20 | Séra Jón Þorlákss. d 1819 | Nýtt t. 8.30 f.m. |
| M | 21 | su. 7.03, sl. 5.23 | Nelson d. 1805 |
| F | 22 | ........................ | Jón Espólín f. 1769 |
| F | 23 | ........................ | |
| | | | GORMÁNUDUR |
| L | 24 | ........................ | Vetrard. fyrsti. 1. v. vetrar |
| | | *Brúðkaupsklæðin*, Matt. 22. | |
| S | 25 | 20. s. e. trín | |
| M | 26 | | |
| Þ | 27 | ........................ | Hallgrímur Pétursson d. 1674 |
| M | 28 | sn. 7.17, sl. 5.08 | Fyrsta kv. 1.32 f m. |
| F | 29 | | |
| F | 30 | Gambetta f. 1832 | |
| L | 31 | Reformazíón Lúters 1517 | 2. v. vetrar. |

# NOVEMBER hefir 30 daga 1903.

GORMÁNUDUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | *Jesús prédikar um sælu*, Matt. 5. | |
| S | 1 | 21. s. e. trín. | Allra heilagra m. |
| M | 2 | ...................... | Jenny Lind d. 1887 |
| Þ | 3 | | |
| M | 4 | su. 7.27, sl. 4.58 | Fullt t. 10.27 e.m. |
| F | 5 | ...................... | |
| F | 6 | | |
| L | 7 | Li Hung Chang d. 1901 | Jón Arason höggvinn 1550 |
| | | | 3 v vetrar |
| | | *Hinn skuldugi þjónn*, Matt. 18. | |
| S | 8 | 22. s. e. trín. | Milton d. 1674 |
| M | 9 | ...................... | Skúli Magnússon d. 1792 |
| Þ | 10 | Lúter f. 1483 | Oliver Goldsmith f. 1728 |
| M | 11 | Marteinsmessa— Schiller | Síð. kv. 7.46 e m |
| F | 12 | su. 7.40, sl. 4.47 [f.1750 | |
| F | 13 | | |
| L | 14 | Rask d. 1832 | 4. v. vetr. |
| | | *Skattpeningurinn*, Matt. 22. | |
| S | 15 | 23. s. e. trín. | |
| M | 16 | ...................... | Jónas Hallgrímsson f. 1807 |
| Þ | 17 | ...................... | Suez skurðurinn opnað. 1869 |
| M | 18 | su. 7.50, sl. 4.38 | Nýtt t.10.10 e.m. |
| F | 19 | ...................... | |
| F | 20 | ...................... | Sir Wilf. Laurier f. 1841 |
| L | 21 | Maríumessa | 5. v. vetrar |
| | | *Jaírus og blóðfallssjúka konan*, Matt. 9. | |
| S | 22 | 24. s. e. trín. | Cecilíumessa |
| | | | ÝLIR |
| M | 23 | | |
| Þ | 24 | | |
| M | 25 | su. 8.00, sl. 4.30 | |
| F | 26 | | Fyrsta kv.10.37 e. m. |
| F | 27 | Dumas jr. d. 1895 | Grímur Thomsen d 1896 |
| L | 28 | Wash. Irving d. 1850 | 6.v. vetrar |
| | | *Innreið Krists í Jerúsalem*, Matth. 21. | |
| S | 29 | 1. s. í jólaföstu | Aðventa |
| M | 30 | | |

# DESEMBER hefir 31 dag 1903.

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | ÝLIR |
| Þ | 1 | ........................ | Eggert Ólafsson f. 1726 |
| M | 2 | su. 8.09, sl. 4.26 | Bardaginn við Austerlitz 1865 |
| F | 3 | ........................ | Robert Stevenson d. 1894 |
| F | 4 | ........................ | Fult t· 11.13 f.m. |
| L | 5 | Mozart d. 1791 | 7. v. vetrar |
| | | *Teikn á sól, tungli og stjörnum*, Lúk. 21. | |
| S | 6 | 2. s. í jólaföstu | |
| M | 7 | ........................ | JónSigurðsson d. 1879 |
| Þ | 8 | Maríumessa | |
| M | 9 | su. 8.18, sl. 4.26 | Milton f. 1608 |
| F | 10 | ........................ | Alex. Dumas sr. d. 1870 |
| F | 11 | ........................ | Síð. kv. 3.53 f. m. |
| L | 12 | Skúli Magnússon f.1711 | 8. v. v. |
| | | *Jóhannes í böndum*, Matt. 11. | |
| S | 13 | 3. s. í jólaföstu — | Séra Jón Þorlákss. f. 1744 |
| M | 14 | ........................ | Washington d. 1799 |
| Þ | 15 | | |
| M | 16 | su. 8,32, sl. 4.26 | Imbrudagar. Sæluvika |
| F | 17 | | |
| F | 18 | ........................ | Nýtt tungl 2,26 e.m. |
| L | 19 | ........................ | 9. v. vetrar |
| | | *Vitnisburður Jóhannesar skírara*, Jóh. 1. | |
| S | 20 | 4. s. í jólaföstu | |
| M | 21 | ........................ | |
| Þ | 22 | Tómasmessa | Sólhvörf: skem. dagur. |
| | | | MÖRSUGUR |
| M | 23 | su. 8.28, sl. 4.30 | Þorláksmessa |
| F | 24 | Aðfangadagur jóla | jólanótt (nóttin helga) |
| F | 25 | Jóladagur | |
| L | 26 | Annar í jólum | F. kv. 7.22 e.m, — 10. v. vetrar |
| | | *Símeon og Anna*, Lúk. 2. | |
| S | 27 | S. m. jóla og nýárs | Magnús Stephensen konferens |
| M | 28 | ........................ | [ráð f. 1762 |
| Þ | 29 | Gladstone f. 1809 | |
| M | 30 | | Bj. Thórarensen f.1786 |
| F | 31 | Gamlársdagur | Gambetta d. 1882 |

# ALMANAK.

ÚTGEFANDI ÓLAFUR S. THORGEIRSSON.

9. ÁR. WINNIPEG, CANADA. 1903.

## Dufferin lávarður.

Hinn 12. febrúar 1902 lést að heimili sínu Clandeboye, í Down-county á Írlandi, einn af hinum allra merkustu mönnum, sem uppi voru í hinu mikla breska veldi á síðastliðinni öld. Það var Dufferin lávarður, sem einnig nefndist Dufferin jarl og sem var markís (markgreifi) af Dufferin og Ava.



DUFFERIN LÁVARÐUR.

Dufferin lávarður, sem hafði fjölda af nafnbótum

og var þess utan *lord lieutenant* í Down-county, rektor Edinborgar-háskólans og heiðurs ofursti í hinni konungl. írsku riffla-herdeild, var fæddur hinn 21. júní 1826, og var þannig nær 76 ára að aldri, er hann lést. Skírnarnafn hans var Frederick Temple Hamilton Blackwood, og hann var af hinum frægustu írsku ættum. Hann stundaði nám við hina nafntoguðustu skóla á Englandi, svo sem við Eton og Christ Church skólana. Hann fékk á ýmsum tímum heiðurs-titla hjá mörgum helstu háskólum beggja megin Atlantshafsins, því hann var einn af fjölhæfustu mentamönnum hinna enskumælandi þjóða.

Þótt Dufferin lávarður væri þannig fjölhæfur fræðimaður, þá gerði hann stjórnmál að æfistarfi sínu, og var einn af þeim mönnum, sem mestan þátt áttu í hinni undraverðu útbreiðslu og makalausa viðgangi hins breska veldis á stjórnartíð Victoriu drotningar. Hann var einn af þeim mönnum, sem með réttu nefnast „smiðir" hins núverandi breska veldis. Hann byrjaði feril sinn sem stjórnmálamaður árið 1855 — þá tæplega þrítugur að aldri —, og var í sérstakri sendiför til Vínarborgar fyrir hönd bresku stjórnarinnar. Hann var í annari samkyns sendiför til Sýrlands árið 1859—60. Árið 1864 var hann tekinn inn í sjálfa stjórnina á Englandi, og var fyrst undir-ríkisritari fyrir Indlands-mál, en síðan hafði hann forsjá ýmsra deilda á stjórnarárum þeirra Palmerston's og Gladstone's, þar til árið 1872, að breska stjúrnin útnefndi hann landstjóra hér í Canada, og var hann í þeirri vandasömu stöðu í 5 ár. Eftir það var hann sendiherra Breta við ýmsar hirðir í Evrópu, svo sem í Pétursborg og Constantinópel, þar til árið 1884, að breska stjórnin gerði hann að landstjóra (viceroy) á Indlandi. Hann hélt því embætti í nokkur ár, en eftir það var hann lengst af sendiherra Breta á Frakklandi, þar til hann varð að segja af sér stjórnmála-störfum, fyrir nokkrum árum síðan, sökum elli og heilsubrests.

Það mátti einu gilda hvaða embætti Dufferin lá-

varður hafði á hendi, þá stundaði hann það með mestu árvekni og samviskusemi, og með því hann var fyrirtaks vitsmunamaður, hygginn og stiltur, hepnaðist honum að leysa hin ýmsu vandasömu störf sín svo af hendi, að hann ávann sér traust og virðingu bæði bresku stjórnarinnar og stjórnenda landanna, sem hann var sendiherra til. Það var í langa tíð segin saga, að ef breska stjórnin lenti í málaflækjum við aðrar þjóðir, sem erfitt var að greiða úr, þá sendi hún Dufferin lávarð þangað, og hepnaðist honum ætíð mæta vel að greiða úr málunum. Blaðið *Punch* gerði eitt sinn spaug að því, hvað víða Dufferin lávarður var sendur, með þessum orðum: „Vér (Bretar) eigum einungis einn stjórnkænan mann", og hafa þessi orð síðan verið í minnum höfð, því þau voru í rauninni sönn, þótt í spaugi væru sögð.

Dufferin lávarður var fulltrúi hins breska veldis í öllum álfum heimsins, að Australiu einni undanskilinni, og er óhætt að segja, að enginn breskur stjórnmálamaður hefir betur skilið þær þjóðir, er hann átti mök við fyrir hönd Breta, en einmitt þessi vitri og fjölhæfi maður. Þetta kom ekki síst í ljós þegar hann var landstjóri á Indlandi og réð þar yfir nálega fimta hluta alls mannkynsins í heiminum. Hann var hinn eini breski landstjóri sem algerlega skildi hugsunarhátt allra stétta á Indlandi — hinna mikillátu innlendu prinsa jafnt sem hinna lítilmótlegustu daglaunamanna. Hin þýðingarmestu mál, sem hann útkljáði þar eystra, voru þau, að ákveða landamærin milli Indlands og Afghanistan, og innlimun Efri-Burmah í Indland. En það sem alþýða á Indlandi mun að líkindum þakka honum fyrir löngu eftir að stjórnmála-afreksverk hans eru gleymd er það, að hann kom á fót félagsskap um alt landið í því skyni, að kvenfólk af öllum stéttum fengi læknishjálp og meðöl í sjúkdómum sínum.

Þótt Dufferin lávarður væri nafntogaður fyrir kurteisi og þýðlegt viðmót, þá var hann óvenjulega einbeittur maður, og gaf aldrei eftir í því er hann áleit

mikilsvarðandi atriði. Það var sem járnhönd væri innan undir silkimjúkum glófanum. Hann beitti jafnvel hörku, þar sem hann áleit það nauðsynlegt, eins og sýndi sig á Indlandi, en einkum á Sýrlandi.

Enginn landstjóri hér í Canada hefir verið jafn elskaður og virtur af öllum stéttum og flokkum manna sem Dufferin lávarður. Hann kom hingað einungis 5 árum eftir að fylkja-sambandið canadiska myndaðist, og eins og nærri má geta vantaði mikið á að fult samræmi væri komið á milli hinna mismunandi landshluta og þjóðerna. Misklíður átti sér stað milli strandfylkjanna austlægu og Quebec og Ontario, en hið mikla Norðvesturland og British Columbia þektust varla nema að nafninu einu þar eystra. Breskir stjórnmálamenn spáðu því jafnvel, þegar fylkja-sambandið myndaðist, að forlög Canada mundu verða þau, að landið segði sig úr lögum við Breta og yrði algerlega óháð ríki, eða að það innlimaðist í lýðveldið sunnan landamæranna — Bandaríkin. En Dufferin lávarður leit alt öðrum augum á framtíð Canada, og sérhver athöfn hans og ræða miðaði að því að draga saman hugi íbúanna og vekja hjá þeim áhuga fyrir að byggja hér upp voldugt ríki, sem yrði þýðingarmikil deild í hinu víðáttumikla breska keisaraveldi. Hann ferðaðist um þvera og endilanga Canada og hélt fjöldamargar ræður, sem hvervetna vöktu aðdáun. Hann benti á hina ótæmandi náttúru-auðlegð landsins og hina glæsilegu framtíð, sem Canada hlyti að eiga fyrir höndum, ef íbúarnir einungis væru samhentir í að nota auðlegðina og vinna að framförum landsins. Dufferin lávarður var einn af hinum mælskustu stjórnmálamönnum Breta og talaði sérlega fagurt, en látlaust, mál. Hann notaði þessa gáfu sína óspart, og það er óhætt að segja, að enginn einstakur maður hefir afkastað meiru í þá átt að vekja þjóðernistilfinning og óbifandi trú á framtíð Canada hjá íbúum landsins, en hann. Hugsjón hans var, að byggja upp hérna megin Atlantshafsins voldugt félagsríki í hinu breska veldi,

ríki, sem yrði móðurlandinu holt og trútt, og hann hafði þá trú, að í stað þess að hollusta við móðurlandið mundi standa Canada fyrir þrifum, þá mundi slík hollusta verða landinu til blessunar. Í einni af hinum fyrstu ræðum sínum í Canada fórust honum orð á þessa leið um þetta efni, eftir að hafa látið í ljósi gleði sína yfir hollustu Canada-manna við breska veldið: ,,Samt sem áður yrði eg fyrstur manna til að hryggjast yfir þessari tilfinning ef hún gerði Canada ótrúa sjálfri sér, ef hún annaðhvort kipti vexti úr eða kæfði canadiska föðurlandsást, eða skapaði hjá íbúunum ósjálfstæðis-anda, í þá átt að vera upp á móðurlandið komnir.''

Dufferin lávarður heimsótti Manitoba-fylki sumarið 1877 og ferðaðist hér um hátt á annan mánuð. Hin merka kona hans, lafði Dufferin, var í þessari för með honum, þótt alt annað væri þá að ferðast hingað og um fylkið en nú er. Á meðan þau hjón dvöldu hér, ráku þau fyrstu tvo naglana í teinana á Pembina-grein Canada Pacific járnbrautarinnar, greinarinnar, sem var fyrsta járnbraut í Manitoba og í rauninni byrjun hinnar miklu canadisku Kyrrahafs-járnbrautar. Dufferin lávarður heimsótti í þessari ferð sinni bygð Mennonita, sem nýlega var stofnuð hér suður í fylkinu, hina nýstofnuðu bygð Íslendinga á vesturströnd Winnipeg-vatns, og ýmsar af hinum eldri bygðum í fylkinu. Þá var Winnipeg-bær einungis stórt þorp, en samt héldu Winnipeg-búar Dufferin lávarði rausnarlega skilnaðarveislu í hinu þáverandi óásjálega ráðhúsi bæjarins. Í ræðu, sem hann hélt við þetta tækifæri, komu í ljós þau áhrif, er grassléttu-fylki þetta hafði gert á hann. Honum fórust orð um þetta efni sem fylgir:

,,Vegna hinnar landfræðislegu afstöðu sinnar og sérstöku einkenna, má Manitoba skoðast sem toppsteinninn í hinum mikla boga af systurfylkjum, sem liggja þvert yfir meginland Ameríku, frá Atlantshafi til Kyrrahafsins. Það var hér á þessu svæði sem Canada,

er hún kom út úr skógunum austnr undan, fyrst leit hinar öldumynduðu grassléttur sínar og ókannaða Norðvesturland, fékk vitneskju um, eins og það hefði verið óvænt vitran, að hinar söguríku lendur hennar eystra, strandlendurnar New Brunswick, Labrador og Nova Scotia, Lawrence-fljóts dalirnir og stöðuvötnin miklu, láglendin og beitilöndin þar eystra— þótt þetta sé víðáttumeira en hálf tylft af konungsríkjunum í Evrópu—, þá væri þetta alt einungis sem anddyri eða forgarður hins komanda ríkis, sem er svo takmarkalaust, að það ruglar reikningsfræði landmælingamannanna og staðhæfingar landkönnunarmannanna. Af þessu leiddi að hún (Canada), skoðandi undanfarin afreksverk sín einungis sem formála eða forspil framtíðar-framkvæmda sinna og vaxandi ákvörðunar, tók nýja stefnu, fékk nýjan innblástur, og fann til þess, að hún var ekki framar bara nýbyggi á bökkum eins fljóts, heldur eigandi hálfs meginlands, og að hún var, sökum hinna stórkostlegu landeigna sinna, sökum náttúru-auðæfa sinna, sökum auðmagns síns, jafningi hvaða veldis sem er á jörðunni''.

Í ræðu, sem Dufferin lávarður hélt í höfuðstað Ontario-fylkis, Toronto, nokkrum dögum áður en hann skilaði af sér landstjóra-embætti sínu í Canada, fórust honum orð sem fylgir :

,,Elskið land yðar, hafið trú á því, berið virðingu fyrir því, starfið fyrir það, lifið fyrir það, deyið fyrir það. Aldrei hefir nein þjóð átt göfugri arfleið en þér Canada-búar, eða átt að fagna fegurri framtíð. Sérhver sú gáfa, sem guð hefir gefið manninum, finst innan takmarka hinna víðáttumiklu landeigna yðar. Að vísu einkennir óblíðara loftslag belti það, sem land yðar liggur í, en lönd sem sunnar liggja og blasa betur við sólu, en norðlægari löndin hafa ætíð verið heimkynni frelsis, iðjusemi og hreysti.—Þér eigið hlutdeild í keisaraveldi, hvers fáni blaktir á og hvers yfirráð ná til allra parta hnattarins, hvers skip sigla um öll höf, hvers tunga er ákvörðuð að útbreiðast víðar en nokkur

önnur Evrópu-tunga, hvers stjórnarfyrirkomulag sérhver þjóð, sem girnist frjálsræði, er að reyna að eftirlíkja, og hvers víðáttumiklu og útbreiddu nýlendur keppa hver við aðra í ást til móðurlandsins, í löngun sinni að hin helgu bönd, sem tengja saman hið mikla veldi, er þær fæddust í, verði æ traustari og nánari."

Árið 1856 sigldi Dufferin lávarður norður í íshaf á jakt sinni, er nefndist „Foam", og kom til Íslands í þeirri ferð. Hann var þá þrítugur að aldri, og skrifaði konuefni sínu á Englandi mörg bréf í þessu ferðalagi — lýsingu á því sem fyrir augun bar á Íslandi, Jan Mayen, Spitzbergen, o.s.frv. Bréf þessi voru síðan gefin út í bókarformi, og var titillinn: „A Jacht Voyage. Letters from High Latitudes" (Sjóferð á jakt. Bréf langt að norðan). Bók þessi hefir ætíð verið talin sem nokkurskonar gimsteinn í breskum bókmentum á þeirri tíð, og á það líka skilið. Sá kaflinn sem hljóðar um Ísland sýnir, að Dufferin lávarður hefir gert sér sérstakt far um að kynnast fornsögum Íslands og kunnað að meta gildi þeirra eins og vert er. Hvert orð í þeim kaflanum, sem hljóðar um Ísland, lýsir sérlega hlýju hugarþeli til ísl. þjóðarinnar og virðingu fyrir henni og sögu hennar, og stingur í stúf við það sem flestallir útlendir ferðamenn rituðu um Ísland og Íslendinga á þeim tímum. Íslenskur námsmaður frá K.höfn, Sigurður Jónassen, var með Dufferin lávarði í nefndri norðurför hans sem túlkur, og hefir vafalaust átt mikin þátt í að vekja hjá honum áhuga og virðingu fyrir þjóðinni og sögu hennar, enda talar Dufferin lávarður um hann fremur sem vin og fóstbróður en sem launaðan þjón eða túlk.

Fyrir viðburðanna rás var Dufferin lávarður landstjóri í Canada þegar Íslendingar byrjuðu að flytja vestur um haf — fóru að vitja „Vínlands hins góða", sem forfeður þeirra höfðu fyrstir fundið. Þegar fleiri hundruð af þessum íslensku vesturförum stóðu uppi ráðalitlir í Canada viðvíkjandi því, hvar þeir ættu að leita framtíðar-bústaðar fyrir sig og þá, sem á eftir

þeim kæmu til Ameríku, hafði það atvik, að Dufferin lávarður hafði komið til Íslands nál. 20 árum áður, þýðingarmikil áhrif á sögu Vestur-Íslendinga. Það er sem sé opinbert leyndarmál, að Dufferin lávarður beitti áhrifum sínum á ráðaneyti sitt í Ottawa (McKenzie-stjórnina) í þá átt að hjálpa Íslendingum til að flytja til og taka sér bólfestu í *hinni nýrri* og *meiri Canada* (Manitoba og Norðvesturlandinu), sem hann af viturleik sínum sá að átti svo mikla framtíð fyrir höndum og yrði íslenskum innflytjendum framtíðarland. Orð Dufferins lávarðar, í ræðu þeirri er hann hélt á Gimli í Nýja-Íslandi sumarið 1877, sanna þetta meðal annars. Hann sagði sem sé í ræðunni: ,,Eg hefi lagt embættisheiður minn í veð fyrir því hjá hinum canadisku bræðrum mínum, að yður muni farnast vel ''(sem nýlendumönnum). Hönd forsjónarinnar virðist þannig hafa verið með í því, að hið látna mikilmenni kyntist þjóð vorri og sögu í norðurför sinni. Vestur-Íslendingar hafa því ekki síður ástæðu til að minnast hins látna mikilmennis og harma dauða hans en Canada-búar og breska þjóðin í heild sinni.

Sigtr. Jónasson.

---

# Cecil John Rhodes.

Hann var einn þeirra manna, sem mest hefir verið um talað og einna misjafnastir dómar feldir um af samtíðarmönnum vorum. Af flestum, sem ekki höfðu persónuleg kynni af honum, var hann álitinn vondur maður, sem hugsaði eingungis um að hrifsa til sín sem mesta auðlegð og ná sem mestum völdum. En þegar hann lézt síðastliðið vor, skildu menn, að miklu göfugri og fegurri hugsjónir höfðu vakað í hjarta hans.



CECIL JOHN RHODES.

Hann var fæddur 5. júlí 1853 í ensku þorpi dálitlu og var prests sonur. Þegar hann hafði lokið námi á alþýðuskólanum þar, var hann sendur til háskólans í Öxnafurðu. Sagt er, að honum hafi ætlað verið að verða prestur, en aldrei mun honum hafa það sjálfum

til hugar komið. En er hann var nýkominn þangað varð hann veikur. Honum varð kalt við kappróður, er hann tók þátt í, og kuldinn hljóp fyrir brjóstið. Læknirinn ráðlagði að senda hann tafarlaust til Suður-Afríku; það gengi að honum tæring og hann lifði líklega ekki lengur en svo sem missiri.

Eldri bróðir hans var kominn þangað á undan honum. Um þetta leyti (1870) fundust demantsnámurnar frægu; drógust þá allir ungir menn og framgjarnir í Suður-Afríku þangað. Fór eldri bróðirinn þangað fyrst, og Cecil skömmu seinna; þriðji bróðirinn bættist einnig í hópinn. Þeir voru sæmilega hepnir, en ekki meir. Elzti bróðirinn varð fljótt þreyttur; hinn brann inni í innlendum kofa, þar sem hann hafði byggistöð sína. Cecil var einn eftir. Tók hann þá við námalóðum bræðra sinna, keypti aðrar og fór honum nú að ganga vel. Heilsan fór batnandi; það átti vel við hann að vera sí og æ undir beru Suður-Afríku lofti.

Eftir nokkurn tíma fór hann að hugsa um að hverfa aftur til háskólans í Öxnafurðu, því nú voru efnin og heilsufarið í betra lagi en áður. En það var einungis um sumartímann, sem hann mátti vera þar; á hverjum vetri varð hann að flýta sér til Suður-Afríku til að flýja dauðann. Hann varð að verja níu árum til að lúka námi sínu á þenna hátt (1872—1881).

Hann elskaði háskólann og háskólalífið í Öxnafurðu af öllu hjarta fram á dánardag. Því hann var skáld í anda, þótt aldrei dansaði hann á bragarfótum. Skáldskapur hans kom fram í göfugum afreksverkum.

Á námsárunum í Öxnafurðu fór hann þegar að láta sig dreyma hinn stórfenglega lífsdraum sinn og ásetja sér að verja öllu afli til að láta hann verða að framkvæmd. Þessi draumur var að draga allan hinn enska heim í sem allra nánast andlegt einingarsamband og styðja að efling og útbreiðslu enskra hugmynda og menningar um allan heim. Þegar árið 1877 er sagt,

að hann hafi samið erfðaskrá, þar sem öll aðalatriði í þeirri erfðaskrá, er hann síðast gjörði, voru tekin fram, og var þó auðlegð hans þá að eins í fyrstu byrjun. Sagt er líka, að draumur þessi hafi vaknað í sál hans við að lesa orð eftir gríska fornaldarspekinginn Aristoteles, sem hljóða svo:

,,Dygðin er æðsta starfsemi þeirrar sálar, er setur sér hið göfugasta markmið og lifir fullkomnu lífi.''

Út af þessu spakmæli hins gamla spekings kom honum til hugar, að það væri lífsskilyrði fyrir hvern æskumann að koma auga á eitthvert markmið, er nógu væri hátt og göfugt, til að verja öllu lífinu að ná. Réttlætið, frelsið og friðurinn virtust honum æðstu velferðarhugsjónir mannanna. Til þess að gjöra þessar hugmyndir að verulegri eign mannanna virtust honum ensku þjóðirnar hafa öðlast sérstaka hæfileika og sérstaka köllun. Þess vegna fanst honum um að gjöra að efla völd þeirra og áhrif í heiminum sem mest mætti verða.

Hann vildi því fyrir hvern mun sameina ensku þjóðirnar sem mest. Fyrst vildi hann knýja Bandaríkin með einhverju móti til að hverfa aftur inn í brezka ríkið. En brátt varð honum skiljanlegt, að það mundi enginn hægðarleikur, þar sem Bandaríkin voru einmitt að verða voldugust allra enskra þjóða. Og mörgum árum fyrir dauða sinn var hann kominn að þeirri niðurstöðu, að einingarbandið milli ensku þjóðanna ætti að knýtast á þann hátt, að England og allar nýlendur þess ættu að sækja um inntöku í ríkjasamband Bandaríkjanna. Alt þetta var í huga hans skilyrði fyrir því, að ensku áhrifin yrðu sem mest í heiminum, en það aftur skilyrði þess, að réttlætið, frelsið og friðurinn gætu rutt sér fullkomlega til rúms.

En hann leit svo á, að auðurinn væri afl þeirra hluta, sem gjöra skal. Hann varð vondur við Gordon hershöfðingja fyrir að þiggja ekki heilt herbergi fult af gulli hjá kínversku stjórninni fyrir að bæla niður *Tai-Ping*-uppreistina. ,,Eg hefði tekið við því'', sagði

hann, ,,eins mörgum herbergjum gulls og þeir hefðu viljað gefa mér. Það er ekki til neins fyrir oss að hafa göfugar hugsjónir, ef vér höfum ekki auðinn til koma þeim í verk.“

Það er því ekki að undra, að hann setti sér fyrir að afla sér auðlegðar af öllum mætti. En hann setti sér fyrir um leið að láta hvern eyri þess auðs, er hann kæmist yfir, ganga til þess að draumurinn mætti rætast.

Hann hafði hepnina með sér. Stærsta happastrikið hans lá í því að sameina mörg smáfélög í Suður-Afríku, sem öll reyndu til að eyðileggja hvert annað. Eftir sameininguna varð nýja félagið einvalt í demantaverzlun heimsins. Hann fekk orð á sig fyrir að vera eini maðurinn, sem Gyðingar gætu ekki snuðað. En Rothschildarnir voru honum góður bakjarl. Sá stóri Gyðingur hjálpaði honum til að taka fyrir kverkarnar á öllum smá-Gyðingunum. Þetta félag er kunnugt um heim allan og heitir: ,,De Beers sameinaða demantsnámu félagið,“ —eitt hinna risavöxnustu auðfélaga heimsins. En Rhodes lét það setja sér sérstakt mið. Það átti að verja tekjum sínum til að þenja út takmörk hins brezka veldis.

Cecil Rhodes var nú orðinn konungur í ríki demantanna og einvalds-herra í *Kimberley*. Hið næsta var, að hann gjörðist þingmaður á Höfða-þingi (*Cape Parliament*). Aldrei var hann mælskur, en þyngd og áhrif fylgdu orðum hans. Hann hugsaði ekkert um háa stöðu, en valdinu seildist hann eftir til að koma hugsunum sínum í verk. Hann gjörðist nú vinur Hollendinganna í Suður-Afríku og honum tókst það. Hann negldi þá meginreglu fasta í hugum Englendinga um þetta leyti, að án Hollendinga væri ekki unt að stjórna Suður-Afríku. Hann hóf Kruger forseta til skýjanna fyrir þjóðrækni hans og sjálfstæðisþrá. Hann lét sér það vera hið mesta áhugamál um þessar mundir, að færa yfirráð Breta sem lengst norður eftir meginlandi Suðurálfunnar. Hann reyndi af alefli til

að fá brezku stjórnina í lið með sér, en þær tilraunir ströndnðu hvað eftir annað.

Þá kom honum það heillaráð í hug að mynda félag einstakra framsóknarmanna breskra og æfintýragarpa og fá handa félagi þessu konunglegt leyfisbréf til þess að vinna hina geysimiklu landspildu, sem nær allar leiðir norður til *Zambesi*-fljóts, — og stjórna henni. Sjálfur var hann heilinn og hjartað og sálin og áhuginn í félaginu. Margir voru örðugleikarnir. En þolið og sannfæringaraflið var óþrjótandi og þangað til var hann, að konunglegt leyfisbréf var fengið. Sumir hinna göfugustu af herrabornum mönnum á Englandi urðu embættismenn félagsins. Peningamenn og alþýða heltu miljónum í fjárhirzluna. Rhodes stóð nú sigrihrósandi; hann ætlaði sér nú að mála Suður-Afríku rauðum lit breskum frá *Orange*-fljóti og norður til Zambesi.

Dr. Jameson, vinur hans og verkfæri, réðist nú með hóp nýlendumanna inn í *Mashonaland.* Hann hafði einungis yfir tveim þúsundum manna að ráða og það er eins og annað furðuverk, að *Lobengula* konungur, sem þar var fyrir, skyldi ekki sópa þeim af yfirborði jarðarinnar í einni atlögu. En dr. Jameson hafði í þetta sinn gæfuna með sér. Mashonaland varð nú eins konar bresk nýlenda og þar var farið að grafa gull af kappi, sem fengið hafði að liggja ósnert í jörðu síðan á dögum Fönikíumanna í fornöld. En ekki varð friðurinn ævarandi. Lobengula fór að skilja, að ekki færi alt með feldu; hann fór að óttast Cecil Rhodes, „þenna stóra bróður, sem etur upp alt landið að einum miðdegisverði.“ Ófriður braust nú út aftur í Mashonalandi, en aftur gjörðust hin sömu býsn. Lobengula hafði 15 þúsund ágætra hermanna, en það voru alt villumenn, en dr. Jameson að eins örfáa og ekki unt að bæta nema sárfáum við. Á fáeinum vikum var Lobengula yfirunninn, hernum tvístrað, en landi hans bætt við eignir Englendinga. Stærra svæði en öllu þýzka keisaradæminu var bætt við

breska veldið án þess nokkurum eyri úr vösum skattgjaldenda á Englandi hefði verið til þess eytt. Bygðir Búa voru nú umkringdar á allar hliðar af landeignum Breta, og Þjóðverjar sátu eftir með sáran skallann, því alt þetta hafði þá langað til að eignast.

Nú var friður í Suður-Afríku. Rhodes stóð nú á tindi veldis síns. Aldrei hafði nokkur nýlendumaður og sjaldan nokkur breskur þegn jafn-miklu afkastað fyrir fósturjörð sína, eins og Cecil Rhodes sumarið 1895, að eins fertugur að aldri.

En nú hafði hann náð tindi velgengni sinnar. Á sex mánuðum hrundi alt þetta að nokkuru leyti undan fótum honum ; að sönnu voru þessi miklu afreksverk hans þess eðlis, að þau mátti enginn ónýta. En drambsemin varð honum að fótakefli eins og fleirum frábærum afreksmönnum. Dr. Jameson hafði unnið frægan sigur yfir Matabelum. Nú sagði hann, að *Jóhannesburg* ólgaði og syði af uppreistarhug. Stjórn Krugers væri svo hötuð, að jafnvel helmingur Búa sjálfra þráði að slíta sig undan henni. Ef Rhodes tæki nú ekki það tækifæri, sem biðist, mundi stjórnarbylting samt verða, og afleiðingar hennar miklu hættulegri fyrir Breta en stjórn Krugers hefði nokkurn tíma verið.

Eins og kunnugt er hlýddi Rhodes þessum fortölum. Og það er kunnugra en frá þurfi að segja, hvernig fór fyrir Jameson. Allri skuldinni var skelt á Rhodes, sem bar sig karlmannlega, og leitaðist með öllu móti við að bera blak af dr. Jameson, vini sínum. Chamberlain átti sjálfur hlut í máli, varð hræddur um sig, þegar hrakförin varð svo mikil, velti allri sökinni yfir á Rhodes, en gjörði svo þá yfirlýsing á þingi, að við rannsókn þá, sem hafin hafði verið, hefði ekkert sannast, er blettur gæti verið á mannorði hans.

En þessa sakleysis yfirlýsing þoldi gamli Kruger ekki. Hann skoðaði þá Rhodes og Chamberlain upp frá því sem svarna bandamenn og þóttist vita, að þeir mundu nota hvert tækifæri til að ná landi sínu frá sér.

Þá tók *Transvaal* að vopnast. Eftir það var engu friðarboði Chamberlains trúað. — Rhodes sneri nú aftur til Suður-Afríku til að hjálpa til að bæla niður uppreist þá, er Matabelar höfðu gjört, þegar áhlaup Jamesons mishepnaðist. Óvopnaður réðist hann inn á milli villumannanna til að semja um frið við þá og þótti þá mikið til hans koma, þó gæfan væri nú farin að snúa við honum bakinu. Af ófriðnum við Búana skifti hann sér svo sem ekkert. Þegar hann var beðinn þess, sagði hann ávalt nei, en bætti við um leið, að þegar til leiksloka kæmi, skyldi hann sjá um, að ekki yrði farið illa með þá.

Upphaflega ætlaði hann að láta erfðaskrá sína vera svo úr garði gjörða, að allar eignir, er hann léti eftir sig, væru í höndum þriggja umboðsmanna,—bestu vinanna, sem hann átti. Á endanum urðu þeir fleiri. Hann lét eftir sig nálægt 30 miljónum dollara. Meginið af þeirri geysiupphæð ákvað hann að ganga skyldi til háskólans í Öxnafurðu. Skyldi vöxtunum varið til námsstyrks handa þeim nemendum, er hefðu þau skilyrði, er fram voru tekin. Skyldi hverjum veitt $1,500 árlega í þrjú ár. Námsstyrkur þessi á að veitast námsmönnum frá Bandaríkjunum, tveimur frá hverju einstöku ríki, — námsmönnum frá fjarlægum hlutum hins breska veldis, og nokkurum frá Þýskalandi. Þegar námsstyrk þessum er úthlutað, verður í fyrsta lagi að taka tillit til vitsmuna og þekkingar; í öðru lagi til karlmensku og göfuglyndis; í þriðja lagi til leiðtoga hæfileika og þeirra kosta, er prýða mann í opinberri stöðu, eins og þetta kemur fram í félagskap við skólabræður; og í fjórða lagi til líkamlegra hæfileika, svo þeir beri af öðrum í alls konar fimleikum og íþróttum. Með þessum námsstyrk ætlaði Cecil Rhodes sér að draga mestu hæfileika mennina saman á einn stað á æskuárum þeirra, — þá mennina, sem líklegastir væru til að stjórna heiminum. Hann vildi láta unga menn í Bandaríkjunum sitja fyrir, bæði vegna þess, að það var föst skoðun hans, að þeir mundu

innan skamms verða lávarðar heimsins, og svo vegna hins, að ekki væri með öðru móti unt af Englands hálfu að græða sárið, sem það lagði sér með því að láta Bandamenn ganga sér úr greipum. ,,Ef Englandi, Bandaríkjunum og Þýskalandi kemur vel saman, þá er friðurinn í heiminum trygður. Vináttuböndin, sem menn bindast á námsárunum, eru sterkustu böndin, sem til eru'', sagði Rhodes.

Hann giftist aldrei og var eiginlega aldrei við kvenmann kendur. Honum var brugðið um, að hann hann hataðist við konur. Í því var engin hæfa. Hann var eitt sinn í miklu vinfengi við *Olive Schreiner*, kven-rithöfundinn alkunna í Suður-Afríku. En sú vinátta var mest fólgin í lotningu beggja fyrir sálargáfum hins. ,,Vanalegir menn fá ekki skilið vináttu, sem eins er varið og okkar,'' sagði hann, og það mun hafa átt vel við um allan kunningsskap hans við konur. Hann var tilbeðinn af mörgum konum, — einkum hinum gáfuðu, og hann hjálpaði þeim mörgum. Það var eins konar kýmni örlaganna, að kona skyldi verða til þess að flýta fyrir dauða hans, — kona, sem hafði sett sér fyrir að giftast honum, en sá að hann vildi hana ekki með neinu móti, og hefndi sín á honum með því að falsa nafn hans undir ávísanir, sem námu 17,000 pundum sterling. Einungis eina ávísunina neitaði Rhodes að borga og varð að höfða mál. En hann var hjatveikur og tók sér þetta nærri. Hann mundi að öllum líkindum hafa lifað nokkurum árum lengur, ef hann hefði ekki flækst inn í þessa málsókn og þann æsing, sem slíku fylgir. Hann varð að hverfa frá Englandi til Afríku. ,,Þið eruð að senda hann ofan í gröfina,'' sagði dr. Jameson, vinur hans. Sjóferðin var hin lakasta og fór mjög illa með hann. Hann bar vitni í málinu og varpaði sér af öllu afli um leið inn í pólitísk æsingamál. Alt þetta var kröftum hans ofvaxið. Hann veiktist og vinir hans gengu ekki gruflandi að því hver endirinn mundi verða. Klukkan 6 að kveldi hins 26. marsmánaðar lést hann: ,,Svo

mikið að gjöra og svo litlu afkastað. Verið þið sæl!" Það voru síðustu orðin hans.

Cecil Rhodes var seinna hluta æfi sinnar nokkuð þunglamalegur, sökum ofholda, er á hann höfðu hlaðist. Samt sem áður sýndist hann hærri maður en hann í rauninni var. Að horfa framan í hann var eins og að horfa framan í ljón; hann var skapaður til mannaforræðis. Í klæðaburði var hann manna mest blátt áfram. Demantakóngurinn lét aldrei demantsknapp skreyta skyrtuna sína. Hár hans gránaði eftir áhlaupið óhappasæla. Augun voru stálgrá að lit, kjálkabeinin ákaflega breið og sterkleg, á brúnina var hann líkastur einhverju skáldi. Hann hugsaði manna mest. Hann elskaði náttúruna, stjörnurnar, himininn, blómin og trén. Hann skipaði svo fyrir, að hann skyldi grafinn upp til fjalla þar sem víðsýnið var svo mikið, að hann kallaði það alheimsútsýn. Hann var enginn trúmaður og fylti flokk þeirra, sem ekkert þykjast geta vitað í þeim efnum; líkurnar til þess að nokkur guð væri til hélt hann að væru hér um bil jafnmargar með og móti. Honum kom vel saman við *Booth*, hinn alkunna forsprakka Hjálpræðishersins, og til starfs hans í líknarinnar þjónustu þótti honum mikið koma. Fáir menn hafa meiri fyrirlitningu haft fyrir auðnum en hann. Hann skoðaði hann að eins sem verkfæri til að beina mönnum og málefnum og örlögum þjóðanna á rétta leið. Hjá honum voru kaupmannshyggindin í heppilegri sameining við ímyndunarafl skáldsins. Hann dáðist að keisaranum þýska fyrir ímyndunaraflið, en var sárgramur við ensku stjórnina fyrir að eiga af því engan snefil.

**F. J. Bergmann.**

---



# SAFN
# til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi.

---

## Saga íslensku nýlendunnar í bænum Winnipeg.

Eftir séra Friðrik J. Bergmann.

---

### I. FYRSTU TILDRÖG.

Árið 1875 var Winnipeg að eins lítið smáþorp. Mundi þá fáum mönnum hafa til hugar komið, að á jafn-skömmum tíma ætti það fyrir smáþorpi þessu að liggja, að verða eins stór bær og myndarlegur og raun hefir á orðið. En legan er hin heppilegasta, í miðju meginlandi Kanada, á hinni frjóu Manitobasléttu, — þar sem hentugasta hvíldarstöð er fyrir verslunarstrauminn að austan, og þar sem hann safnar aftur kröftum til þess að breiðast út um alt Norðvesturlandið og færa öllu því víðáttumikla svæði þarfir sínar.

Fáum Íslendingum mun hafa verið nafnið svo mikið sem kunnugt fyrir árið 1875. En eftir það fléttast nafnið Winnipeg inn í sögu þjóðar vorrar og það er von vor og trú, að það fái þar meiri og meiri þýðing.

Eins og kunnugt er, var um þessar mundir

(1875) heilmargt af Íslendingum saman komið í bænum *Kinmount* í *Ontario*-fylki í austurhluta Kanada. Þar var atvinnuleysi mikið og ekki lífvænlegt til aðseturs að neinu leyti. Æði-margir Íslendingar urðu að vinna þar hjá bændum fyrir einum 10 centum á dag og voru það neyðarkjör. Börn og konur lifðu á því að tína ber, sem hægt var að selja í bænum, og fengust að eins 20 cts. fyrir fulla fötu. Þá kom mönnum saman um, að eitthvað yrði til bragðs að taka, til að komast á hentugri stöðvar. Þá voru fundahöld mikil með Íslendingum og margar ráðagjörðir. Kom mönnum saman um, að senda yrði gagngert nokkura valda menn vestur í land, til að leita uppi eitthvert hentugt hérað, þar sem Íslendingar gætu numið land og farið að búa.

Til fararinnar voru kjörnir fjórir Íslendingar og skyldi einn maður innlendur fara með þeim, sem mjög bar hag íslensku innflytjendanna fyrir brjósti. Íslendingarnir, sem kjörnir voru til fararinnar, voru þessir: Sigtryggur Jónasson, Kristján Jónsson, Skafti Arason og Einar Jónasson. Þrír hinir fyrst nefndu hafa fléttað svo nöfn sín inn í sögu Vestur-Íslendinga að naumast þarf að ættfæra þá. Sigtryggur Jónasson varð síðar ritstjóri „Framfara" og „Lögbergs" og er ættaður úr Eyjafirði. Kristján og Skafti eru báðir Þingeyingar og eru nú í hópi helstu manna Argyle-bygðar; annar þeirra selur akuryrkjuáhöld, en hinn rekur búskap í stærra stíl en nokkur annar Vestur-Íslendingur. Einar Jónasson mun fást við smáskamtalækningar í Nýja Íslandi. Innlendi maðurinn var *John Taylor*, sem síðar varð umboðsmaður Kanada stjórnar í Nýja Íslandi. Hefir þjóð vor óefað aldrei átt neinn einlægari vin, erlendra manna, en hann.

Þeir Kristján Jónsson og Skafti Arason fóru suður til Milwaukee. Þar hittu þeir Sigurð Kristófersson frá Ytri-Neslöndum við Mývatn; slógst hann í förina með þeim. Hann er nú einn af helstu bændum Argyle-bygðar. Í bænum *Morehead* í ríkinu Minnesota

mættu þeir þeim Sigtryggi Jónassyni, Einari Jónassyni og John Taylor. Voru þessir Íslendingar allir ungir menn og fjörugir um þessar mundir og fullhugar hinir mestu, með hjartað fult af löngun til að geta leyst erindi sitt vel og giftusamlega af hendi. Ljúfmennið *Taylor* var eini öldungurinn í förinni og þráði hann ekki síður en þeir, að förin yrði happasæl, því hjarta hans hafði komist við af neyðarkjörum Íslendinga austur frá, og vildi hann fyrir hvern mun hjálpa þeim til að koma fótum fyrir sig. Þeir lögðu af stað í júlímánuði 1875 og komu til Winnipeg seint í ágúst. Þá var ekki eins fljótfarið landshornanna á milli og nú.

Að líkindum hafa þetta verið fyrstu Íslendingarnir, sem til Winnipeg hafa komið, að minsta kosti svo að sögur hafi farið af.

### 2. WINNIPEG-BÆR UM 1875 OG LANDNÁM Í NÝJA ÍSLANDI.

Eins og áður er ávikið var Winnipeg þá lítið þorp og fremur óálitlegt. Þá munu hafa verið taldir hér um 600 hvítra manna, en töluvert margt af Indíánum og kynblendingum. *Hudson*-flóa félagið gamla og góðfræga hafði lengi haft hér verslunarstöðvar. Það átti þá lang-fegurstu og reisulegustu húsin og hafði verslun bæjarins að lang-mestu leyti í höndum sér. Hingað og þangað láu Indíánar í tjöldum inni í bænum og utan við hann. Varir urðu þeir félagar við ófögnuð einn mikinn, um leið og þeir komu til bæjarins. Alt var fult af engisprettum, svo ekki varð fæti niður stigið fyrir þeim. Var svo hvarvetna í öllu Manitoba um þetta leyti á sléttlendinu, og stóð mönnum hinn mesti stuggur af, eins og von var. En ekki höfðu þær langa viðdvöl. Að tveim vikum liðnum voru þær allar farnar. Mjög virtist þeim félögum landið eyðilegt í grend við Winnipeg. Mun þeim því hvorki hafa litist á engispretturnar né sléttlendið lága kring um bæinn, og þess vegna ekki hugsað til að beina löndum sínum þangað.

En þeim var sagt, að niður að Winnipeg-vatni hefðu engisspretturnar aldrei komið og þar mundi óhultur griðastaður fyrir þeim. Fengu þeir sér stóran bát (*York*-bát), fararnesti, tjöld og þrjá kynblendinga til fylgdar. Í besta leiði héldu þeir langt norður á vatn. Skoðuðu sig um við *Drunken River* og *Sandy Bar* og upp með *White Mud River*, sem þeir nú kölluðu Íslendingafljót. Leist þeim allvel á landið, ekki síst engjarnar grösugu með fram Íslendingafljóti. Líka var vatnið fult af fiski og sýndist þeim því þarna björgulegt, og engar voru þar engisprettur. Héldu þeir þá aftur áleiðis til Winnipeg og sigldu alla leið til Selkirk, Senda þeir nú stjórninni símrit og biðja hana um landspilduna alla með fram vatninu, strandlengjuna frá landamærunum (*Boundary Line*) og norður á Hverfisteinsnes (*Grindstone Point*), 1 ½ *township* (hreppa) á breidd og ey þá úti í vatninu, sem Mikley nefnist. Þetta land alt var þá í hinu svonefnda norðvestur héraði (*North West Territory*). Svar kom frá stjórninni samdægurs um, að hið umbeðna svæði væri afmarkað Íslendingum. Kom þeim félögum saman um, að þeir Mr. Taylor, Sigtr. Jónasson og Einar Jónasson færu austur og töluðu við stjórnina. Einnig kom þeim saman um, að Sigtryggur Jónasson skyldi sendur til Íslands til að leiðbeina þeim, sem nú vildu fara af landi burt og taka sér bólfestu í þessu nýja landnámi. En aftur skyldi John Taylor sjá um, að það íslenskt fólk, sem austur frá væri, kæmist vestur um haustið, áður vetur gengi í garð og vötn frysu.

Hinir þrír, Skafti Arason, Kristján Jónsson og Sigurður Kristófersson, fóru tafarlaust til Selkirk og fengu sér járnbrautarvinnu. Kaupgjaldið var 2 dalir (*dollars*) á dag. Þeir Skafti og Sigurður voru þar tvo mánuði. Þá kom hópurinn að austan. Fóru þeir þá að hjálpa þeim, sem að austan komu, til þess að komast ofan til Nýja Íslands. Þangað var komið 1. eða 2. dag nóvembermánaðar. Þrem dögum síðar lagðist ís á vatnið og veturinn skall á með frosti og snjó.

### 3. FYRSTI INNFLYTJENDA HÓPURINN KEMUR TIL WINNIPEG.

Þessi íslenski innflytjenda hópur að austan kom til Winnipeg 20. september 1875. Það voru tæp þrjú hundruð manns talsins. Þá hafði sá maður umsjón á innflutningum, er *William Hespeler* hét. Hann er Þjóðverji og hefir síðan orðið einn af merkustu mönnum Winnipeg-bæjar. Hann er nú þýskur konsúll og forseti í fylkisþingi Manitoba. Ekki urðu margir úr hópi þessum eftir í Winnipeg, en þó nokkurir. Voru það einkum stúlkur, því eftir þeim var mikið sóttst í vistir. En ekki munu þær margar hafa verið, er settust að í Winnipeg þetta haust, því alla langaði til að halda hópinn og mönnum þótti nú enn ægilegra en áður að skilja við vini sína og vandamenn, þar sem svo langt var komið vestur í land og menn voru þessu nýja mannfélagi öldungis ókunnir, enda mun sumum hafa virst lífið með nokkuð hrikalegum blæ, eins og verða vill, þegar komið er svo að segja út að takmörkum siðmenningarinnar.

### 4. INNFYTJENDA HÓPURINN MIKLI KEMUR TIL WINNIPEG.

Eitthvað mun hafa komið af fólki frá Nýja Íslandi sumarið 1876 til að leita sér atvinnu. Munu menn hafa verið til þess neyddir, bæði karlar og konur, sökum fjárskorts. Sigurður Kristófersson hafði til dæmis numið land í Nýja Íslandi og verið þar um veturinn. En um vorið fór hann um leið og hann vissi, að nokkur atvinnu von mundi vera, upp til Winnipeg. Þar var þá ekki um aðra atvinnu að gjöra en strætavinnu. Var hann túlkur fyrir alla Íslendinga, sem slíkri vinnu vildu sæta, og hafði umboð til að færa til bókar, hve lengi hver þeirra var við vinnuna. Að tveim mánuðum liðnum var hann gjörður aðstoðarverkstjóri og skömmu síðar aðal-verkstjóri. Fekk hann þá tvo dali og hálfan á dag og fæði ókeypis hjá

manni einum þýskum, enda var hann ötull og ótrauður í hvívetna og tók flestum fram að fjöri og áræði um þessar mundir.

En nú er frá því að segja, að fjöldi Íslendinga kom frá Íslandi þetta sumar (1876), beina leið til Winnipeg. Var það langstærsti hópurinn, sem enn hafði komið frá Íslandi í einu. Settust nú heilmargir að í Winnipeg, þó allur fjöldinn færi ofan til Nýja Íslands. Einkum var það kvenfólk, sem nú réðist í vistir til innlends fólks, og sáu menn nú þess nauðugan kostinn, bæði vegna fjárskorts og svo vegna hins, að unga fólkið þurfti að læra málið og um leið verknað allan og hússtörf. Því nú fundu Íslendingar til þess betur en nokkuru sinni heima á ættjörðu sinni, hve fákunnandi þeir voru í öllu. Stúlkur, sem ekkert kunnu að mæla á enska tungu, en það voru flestar, fengu frá fjórum dölum og upp að sex um mánuðinn, og þótti það býsna gott kaup, þegar miðað var við kaupgjald á Íslandi. Þær fáu, sem dálítið voru komnar niður í ensku máli, fengu átta dali í kaup um mánuðinn. En margar reyndust vistirnar misjafnar. Sumar húsmæðurnar þóttu harðar í horn að taka og nokkuð óþjálar í lund, enda hefir þeim nú ef til vill verið nokkur vorkunn, þegar vinnukonan skildi ekki eitt orð af því, sem þær báðu þær, og máttu horfa á þær gjöra alla hluti öfugt. En víst er um það, að fljótar voru íslensku stúlkurnar að læra handtökin nýju við hússtörfin og fljótar að komast niður í málinu, — svo fljótar, að furðu gengdi. Þær létu þá lundillu húsmæðurnar eiga sig og gátu valið um staði, þar sem vel var farið með þær.

## 5. ATVINNA OG VINNUBRÖGÐ.

Fremur hittu Íslendingar hér illa á margt að ýmsu leyti. Hér voru engin góðæri um þessar mundir, en alt undur skamt á veg komið, deyfð í framkvæmdum og ótrú á öllu. Atvinna var hér fyrir daglaunamenn svo sem engin. Helsta atvinnan, sem hér

var um að ræða, var við að skipa upp úr bátunum, sem gengu eftir Rauðá alla leið sunnan frá *Fisher's Landing*, bæ einum litlum suður í Minnesota. Sú atvinna var fjarska ervið og þótti hin versta. En fyrir hana var goldið 20 cent um klukkutímann og sátu menn sig ekki úr færi, hvenær sem slíkt tækifæri gafst, til að innvinna sér nokkura dali.

Stundum réðust menn á báta þessa, fóru suður með þeim og komu með þeim norður aftur, en fáir munu hafa farið með þeim nema eina ferð. Því meðferðin á mönnunum var hin argasta. Vanalega voru skipstjórar og stýrimenn á bátum þessum sunnan úr ríkjum. Höfðu þeir áður verið á bátum, sem gengu eftir Mississippi-fljótinu. En á þeim bátum unnu þrælar stöðugt, áður en þrælahald var af numið. Þessir skipstjórar og stýrimenn höfðu því vanið sig á að fara með menn sína eins og þegar mestri grimd er beitt við skepnur og orðið sjálfir á þann hátt tilfinningarlausir og grimmir.

Sá, sem þetta ritar, ferðaðist með einum þessum bát norður eftir Rauðá alla leið til Winnipeg, sumarið 1879. Á leiðinni kom hellirigning. Jörðin varð á skömmum tíma eins og rennvotur mýrarfláki á vordegi. Báturinn varð nú að nema staðar við eldiviðarhlaða nokkura, sem stóðu öðrum megin á árbakkanum, til þess að hafa nægan eldiviðarforða það, sem eftir var leiðarinnar. Var nú bátsmönnum skipað að fara upp á árbakkann og bera viðinn út á bátinn á öxlum sér. En um leið og þeir stigu fæti á jörðina sukku þeir ofan í leirinn upp að knjám. Ef þetta hefði nú verið einhvers annars staðar á jarðarhnettinum, hefði nú ef til vill ekki verið svo mikið um það að fást. En leirinn meðfram Rauðá er ólíkur öllum öðrum leir. Að sökkva niður í hann er hið sama og að verða blýfastur. Maður er límdur niður á líkan hátt og maður hefði stigið niður í trjákvoðu. Og meðan maður togar annan fótinn upp með harmkvælum, sekkur hinn enn dýpra niður í forina. Það

er eitt hið ömurlegasta, sem fyrir nokkurn mann getur komið, að þurfa að komast þar nokkuð áfram, eða gjöra þar nokkurt handarvik, þegar blautt er.

Í þessari óskapa-færð áttu nú aumingja vinnumennirnir á bátnum að bera viðinn á öxlum sér. Þeir voru nógu brjóstumkennanlegir fyrir að komast lausir og liðugir út að viðnum. En þó tók það út yfir, þegar þeir áttu að bera tvo—þrjá eikarbúta á öxlunum. Þeir ultu þá um sjálfa sig, grófust niður í leirinn, og urðu svo að draga sjálfa sig upp fyrst og trjábútana á eftir, til þess að komast svo sem lengd sína, þangað til alt fór á sömu leið. Aldrei hefi eg heyrt annað eins orðbragð og þá. Það var nærri því ekki að furða þótt mönnunum, sem voru í þessum harmkvælum staddir, hætti við að tala ljótt. En það sem þeir sögðu var ekkert á móti þeirri orrahríð af ljótustu blótsyrðum og háðungar orðum, sem skipstjóri og stýrimaður létu yfir þá dynja. Og þegar þeim þótti eldiviðarsóknin ætla að ganga nokkuð seint, fór stýrimaðurinn sjálfur á stað, ekki til að hjálpa þeim, heldur til að sparka í þá með fætinum, þegar þeir lágu þarna og botnveltust í leirnum. Aldrei hefi eg orðið var við eins mikla löngun hjá neinum verkstjóra til að sjá menn ofbjóða kröftum sínum og ganga algjörlega fram af sér. Enda litu mennirnir út eftir þessa stundarraun eins og þeir væru nýstaðnir upp úr langri legu. Þeir voru nábleikir og svo aflvana, að þeir gátu naumast dregið sig áfram, svo rennandi af svita eins og þeir hefðu verið að synda í ánni, svo þungir af aur og leðju, sem hlaðist hafði utan á þá, að fötin þeirra hefðu verið vænar klyfjar á hest.

Það var því ekki að furða, þótt Íslendingum, nýkomnum að heiman og óvönum öllum vinnubrögðum erlendra þjóða, þætti ekki árennilegt að ráða sig á Rauðárbátunum til langframa. Kaupgjald mun verið hafa 40 dalir um mánuðinn.

En þess utan var hér nokkura járnbrautarvinnu að fá. Var þá verið að leggja Kanada Kyrrahafs-

brautina austur frá Selkirk um það leyti, er Íslendingar komu flestir; en árið eftir var hún lögð frá Selkirk og til St. Boniface, sem er nú ein af undirborgum Winnipeg. Kaupgjald við járnbrautarvinnu mun alment hafa verið 15 cent fyrir hverja klukkustund, eða hálfur annar dalur á dag. En lítt voru Íslendingar því vanir að standa við moldar og malar mokstur frá morgni til kvelds. Og þóttust margir ekki þola þá vinnu heldur. En breytt matarhæfi og ólíkt loftslag því, sem þeir höfðu vanist, mun hafa hvorttveggja átt góðan þátt í því. Smám saman vöndust menn þessu hvorutveggju og lærðu um leið að beita sér við vinnuna á sama hátt og innlendir menn. Oft og einatt kendu verkstjórarnir löndum vorum að halda á rekunni og þótti sumum það minkun mikil og fyrrur einar. En flestir munu hafa sannfærst um, að hið nýja handlag var betra og að meira lá eftir þá á hverjum degi með því vinnulagi, sem hér var viðhaft, en því, er þeir höfðu áður vanist. Kom sá tíminn, og það vonum bráðar, að menn hættu að kvarta undan ofharðri vinnu og slæmri meðferð hjá innlendum mönnum, hvort sem um járnbrautarvinnu var að ræða eða önnur störf, en allflestir urðu nokkurn veginn ánægðir. Því þó verkstjórarnir væru misjafnir og sumir svo óhepnir að ráðast hjá hörðum og ónærgætnum verkstjórum, var ávalt hægt að leita frá þeim til annarra, sem mannúðlegri voru og nærgætnari við menn sína.

Fljótt fann íslenskt fólk til þess, bæði karlar og konur, sem vann í vistum hjá innlendum mönnum um lengri eða skemmri tíma, að það mannaðist við að ganga í skóla hjá erlendri þjóð og læra hjá henni að beita kröftum sínum betur en þeir höfðu áður kunnað, þó ekki væri nema um algenga vinnu að ræða. En oft þóttust menn taka nokkuð út með þeirri skólagöngu.

## 6. FYRSTU HÍBÝLIN.

Svo er sagt, að fyrsta konan íslenska, sem hús-

freyja varð hér í Winnipeg, hafi verið Sigríður, systir Jóns frá Litlu-Strönd við Mývatn, en síðar fyrri kona Sigurðar Davíðssonar, sem enn á heima í Winnipeg. Fyrri maður hennar hét Friðrik Sigurbjörnsson, frá Sjávarlandi í Þistilfirði (ættaður af Melrakkasléttu). Kemur ýmsum saman um, að þau munu hafa verið fyrstu hjónin íslensku, sem giftust í Winnipeg. Þau bjuggu í skála einum niður við Rauðá. Æði-margir Íslendingar settust þar að. Þeir, sem ofurlitla peninga höfðu, keyptu sér við fyrir fáeina dali, og gerðu sér þar skála (shanty). Voru það fyrstu íslensku húsin, sem hér voru reist, og má nærri geta að þau hafi verið af æði-miklum vanefnum gjör. Hinir, sem allslausir voru, urðu að gjöra sér að góðu að liggja úti undir veggjunum. Flest vantaði fólk þetta þá hér um bil allar lífsnauðsynjar eins og nærri má geta. Eldivið hafði það til dæmis ekki annan en þann, sem það veiddi upp úr ánni. Það var á svonefndum Hudsonflóa flötum niður með Rauðá að fyrstu íslensku fjölskyldurnar settust að ; hafði Norður Kyrrahafsbrautin þar síðar stöðvar sínar. Reyndar voru Íslendingar þar í algjörðu leyfisleysi, en þeir, sem hlut áttu að máli hafa séð, hve illa þeir voru staddir, og fengu sig ekki til að amast við þeim að svo stöddu. En síðar urðu þeir að hverfa þaðan.

### 7. BÓLUVÖRÐURINN HAFINN.

En tiltölulega fátt mun það hafa verið af íslensku fólki, sem tók eiginlega bólfestu í Winnipeg, fyrr en sumarið 1877. Þangað til var Nýja Ísland aðal-heimkynni all-flestra. Um veturinn 1876—77 geysaði bólan þar, eins og kunnugt er. En um vorið, þegar vörðurinn var hafinn, tóku margir sig upp úr nýlendunni, bæði karlar og konur, og fóru upp til Winnipeg til að leita sér þar atvinnu. Var mönnnm þá nauðugur einn kosturinn, enda voru þá margir búnir að fá nóg af verunni þar. Við varðlínuna voru stjórnartjöldin. Í þeim bjó gæsluliðið stjórnarinnar, sem eftir-

litið hafði á hendi með verðinum, svo ekki breiddist bóluveikin út, er alt innlent fólk var fjarskalega hrætt við, sem von var.

Í einu þessu stjórnartjaldi voru menn færðir úr fötum sínum. Söknuðu menn þess ekki svo mjög, því margur var þá orðinn fremur illa til fara. Voru larfar þeirra teknir og brendir í eldi. Þá voru menn leiddir í annað tjald og þvegnir úr sápuvatni og rifnir með ruddalegum gólfburstum og þótti mörgum það, sem ekki voru vatnsböðum vanir, nokkuð hranaleg meðferð. Í þriðja tjaldinu voru menn færðir í ný föt, skyrtu, brækur, sokka, skó og vesti. Enga fengu menn treyjuna og urðu því að labba snöggklæddir alla leið til Winnipeg. Og að líkindum hefir æði-margur fengið að skoða sig um býsna vel í borginni, áður hann var orðinn svo auðugur, að geta keypt sér treyju. Eitthvað urðu allir að borga fyrir þessi nýju föt, þó ekki fengju allir þær stærðir sem best voru við hæfi þeirra. Samt þóttust flestir hafa skift um til til hins betra, því nú höfðu menn þó fengið föt, sem sniðin voru eftir landsins tísku og ekki voru úr íslenskum vaðmálum, sem helst til þóttu skjólgóð hér í sumarhitunum.

Á leiðinni var fólk alt innlent mjög hrætt við þessa Íslendinga, því það vissi, hvaðan þeir komu, og álitu sóttnæmi vera í hverri felling á fötum þeirra. Hvar sem þeir komu, flúði fólk úr vegi þeirra. Nestislausir voru þeir með öllu og neyddust því til þess stundum að biðja um mat, þótt engan hefðu þeir gjaldeyri. Sums staðar þorði fólk ekki með neinu móti að koma þeim svo nærri, að það gæti bugað nokkuru góðu að þeim. Sums staðar var eitthvað matarkyns sett á afvikinn stað og þar var þeim gefin vísbending um að vitja þess.

Fjöldi af Íslendingum kom til Winnipeg um sumarið og margir settust þar að fyrir fult og alt, en sumir hurfu aftur fyrir veturinn niður til Nýja Íslands og dvöldu þar hjá vinum og vandamönnum. Einkum

var margt af kvenfólki í vistum. Þóttu þær fljótar að læra málið og allan innlendan verknað, er að hússtörfum laut, og var nú þegar eftirspurn mikil eftir þeim.

## 8. ÍSLENDINGAHÚSIN.

Þegar þetta sumar fór að hefjast dálítill félagsskapur með Íslendingum í Winnipeg. Tvö svo-nefnd Íslendingahús voru þá á Aðalstræti bæjarins. Höfðu heilmargir Íslendingar þar eins konar byggistöð. Veitti Jón Þórðarson og kona hans, Rósa Jónsdóttir, bæði eyfirsk, öðru þeirra forstöðu. Sat hann síðar á þingi Norður-Dakotamanna eins og segir í þætti Norður-Dakota nýlendunnar. Hafði hann fyrst komið til Milwaukee í Wisconsin-ríki og dvalið þar um stund. En vorið 1877 flutti hann þaðan norður til Winnipeg. Hann er maður ljúfur í umgengni, einlægur í ráðum og drengur hinn besti, en kona hans hinn mesti skörungur. Vildu því margir hjá þeim vera. Meðal þeirra voru Árni Sigvaldason frá Milwaukee, Jón bróðir hans og Arngrímur Jónsson. — Lítið eitt sunnar í strætinu var og annað Íslendingahús. Því veitti forstöðu Jón nokkur Finnbogason, Þingeyingur, lipur maður og félagslyndur; hann er nú búsettur hér í Winnipeg.

Jón Þórðarson mun hafa orðið til þess fyrstur manna að hlynna að því, að Íslendingar í Winnipeg hefðu dálítinn félagsskap með sér, góðum siðum og íslenskri þjóðrækni til eflingar. Á því húsinu, sem þau hjón veittu forstöðu, var því búinn út dálítill samkomusalur. Þar komu Íslendingar saman á sunnudögum, bæði karlar og konur, og var þar húslestur lesinn. Oftast nær mun Jón Þórðarson sjálfur hafa lesið; þótti flestu fólki mjög vænt um þetta og sótti samkomur þessar vel. Lá þá vel á flestum og þótti þeim hátíð að fá að hitta landa sína á helgum, sem bundnir voru í föstum vistum, kvenfólkinu einkum, sem fáar tómstundir hafði á virkum dögum.

## 9. UPPHAF ÍSLENDINGAFÉLAGS.

Haustið 1877, 6. dag septembermánaðar, stofnuðu nokkurir Íslendingar í Winnipeg lögbundinn félagsskap og nefndu þeir það Íslendingafélag. Í lögum félagsins er það tekið fram, að tilgangur þess sé ,,að efla og varðveita sóma hinnar íslensku þjóðar í heimsálfu þessari, viðhalda og lífga meðal Íslendinga hinn frjálsa framfara og mentunar anda, sem á öllum öldum sögunnar hefir einkent hina íslensku þjóð.'' Ætlunarverkið virðist vera nokkuð umfangsmikið og óákveðið og er auðséð að hugmyndir manna um félagsskap hafa verið fremur bernskulegar um þessar mundir. En þess er að gæta, að svo var því varið með allar félagshugmyndir með þjóð vorri um þetta leyti. Nú er einn aldarfjórðungur síðan liðinn. Á honum hafa ótal félög myndast og lagt út á djúpið með álíka mikinn þokukúf fyrir áttavísi. Hefir þetta átt sér stað bæði heima á ættjörðu vorri og hér fyrir vestan. Má nærri geta, að þau télög hafa í rauninni aldrei neinu verulegu til leiðar komið. Því til þess að geta leyst eitthvert ætlunarverk af hendi, þarf maður fyrst að gjöra sér ljóst, í hverju það ætlunarverk er fólgið og á hvern hátt unt sé að koma því í framkvæmd. En þó verulegi árangurinn af öllum slíkum félagsskap hafi lítill orðið með þjóð vorri, svo sem vonlegt er, hafa þó þessi sífeldu félagsmyndunarumbrot haft sína þýðingu fyrir því. Það er ólíkt, hvað hugmyndirnar um félagsskap og félagsmál í heild sinni eru gleggri með þjóð vorri nú en fyrir fjórðungi aldar síðan. Og það er ólíkt, hve vel mönnum tekst að starfa saman í félögum að einhverjum ákveðnum félagsmálum nú en var fyrir 25 árum. Sá andlegi þroski, sem allar þessar félagsskapar fæðingar-hríðir hafa haft í för með sér fyrir þjóðlíf vort — svo hjákátlegar sem þær oft og tíðum hafa verið — er hreint ekki lítill.

Hugmyndin um Íslendingafélag þetta mun hafa

komið upp í Milwaukee, þegar Íslendingar héldu þjóðhátíð sína þar 1874, og er tilgangurinn auðsjáanlega hinn besti. Þá voru býsna margir þar saman komnir, en brátt tvístruðust þeir hingað og þangað, svo ekki var unt neinum slíkum félagsskap að sinna. En til þess nú, að hugmyndin skyldi ekki með öllu deyja út, mun Jón Þórðarson hafa geymt hana hjá sér og vakið hana til lífs aftur, þegar hann var kominn til Winnipeg, þar sem heill hópur af Íslendingum nú var saman kominn.

Hver félagssmaður var skyldur til að greiða 50 cents árlega í sameiginlegan sjóð félagsins. Fyrsti forseti þessa Íslendingafélags í Winnipeg var Jón Þórðarson, skrifari Arngrímur Jónsson, sonur Jóns Björnssonar frá Héðinshöfða á Tjörnesi, en féhirðir Magnús Jónsson.

En svo virðist sem embættismanna kosning þessi hafi ekki verið nema til bráðabyrgða. Því 4. nóvember sama haustið eru nýir embættismenn aftur kosnir. Var þá kosinn til forseta Árni Sigvaldason, annar Milwaukee-Íslendingur, sem þá var kominn til Winnipeg, nú nýlátinn suður í Minnesota og öllum Vestur-slendingum harmdauði. Til skrifara var kosinn Jón Þórðarson, en til féhirðis ungfrú Helga Sigurlína Þorsteinsdóttir frá Mýrarlóni í Eyjafirði, er síðar gekk að eiga Arngrím Jónsson, þann er áður var nefndur. Það var gáfuð kona og gegn, en er nú einnig nýdáin vestur á Kyrrahafsströnd. Þessi embættismanna kosning virðist hafa staðið þangað til næsta vor. Þá fóru fram nýjar kosningar 26. maí 1878 og voru þá kosnir þessir: Arngrímur Jónsson forseti, Jón Þórðarson skrifari, Magnús Jónsson féhirðir. Félagið hélt fundi aðra hverja viku. Þá var sjóður félagsins 10 dalir, en félagsmenn 50. Hinn 12. júlí um sumarið var hlutavelta haldin til ágóða fyrir félagið og græddust því þá um 15 dalir. Menn voru ekki auðugir á þessum árum og ef einhver hefði þá getað nefnt upphæðirnar, er safnað hefir verið í ýmsar félagsþarfir á

seinni árum, mundi mönnum hafa fundist það ljótar öfgar. Um sumarið átti félagið um 30 dali í sjóði og fanst mörgum það vera stór-fé.

### 10. FRÁ STARFSEMI FÉLAGSINS.

Eitt af því, sem Íslendingafélag þetta áleit vera ætlunarverk sitt, var það að komast eftir, hvað yrði um Íslendinga þá, er hingað kæmu til lands, grenslast eftir, hvar þeir væru niður komnir, vita smám saman hvernig högum þeirra væri háttað og sjá um, að þeir týndust ekki úr sögunni. Ófullkomnar hafa nú líklega þessar tilraunir verið. Samt vissu Íslendingar furðu vel hver til annars á þessum fyrstu árum, því löngunin var svo sterk til að haldast í hendur, þótt menn væru í mikilli fjarlægð hver frá öðrum. En eftir því sem fram liðu stundir varð þetta miklu torveldara og eiginlega alveg ókleyft, þó nú hjálpi dagblöðin til þess betur en nokkuð annað.

Félagið tók einnig að sér að halda uppi guðsþjónustusamkomum. Það var þörf hjá mönnum um þessar mundir til að sýna einhvern lit á að rækja trú sína og þó margir væru hugsunarlitlir í þeim efnum, var þó sú tilhugsun, að kristindómurinn glataðist úr eigu þeirra Íslendinga, sem fluttir voru hingað vestur, öllum þorranum af fólki sérlega ógeðfeld. En menn vildu, að félagið hugsaði meira fyrir andlegum hag fólksins, en að sjá um, að lestrarsamkomur væru haldnar. Þær voru góðar og ómissandi fyrir hina eldri. En um börnin og unglingana yrði líka að hugsa. Þess vegna réðst félagið í að stofna til sunnudagsskóla. Sú sunnudagsskóla kensla fór fram í húsi Jóns Þórðarsonar og voru það þrjár konur, sem tóku hann að sér: Andrea Fischer frá Reykjavík, sem síðar gekk að eiga Gunnar Einarsson, Helga Þorsteinsdóttir, sem áður hefir nefnd verið, og Jóhanna Skaftadóttir frá Reykjavík. Munu allflestir hafa sent börn sín til þeirra og þóttu þær allar leysa kenslu þessa prýðilega vel af hendi.

Mjög fundu menn til þess um þessar mundir, hve bagalegt það var, að komast ekki dálítið niður í bóklegu máli ensku. Því þó menn gætu lært nokkurn veginn að mæla hversdagslegt mál af því, sem menn heyrðu talað í kring um sig á degi hverjum, fundu menn, að það var ónóg. Voru þá margir, sem endilega hefðu viljað verða slíkrar kenslu aðnjótandi, ef hennar hefði verið kostur. En þá voru það ekki margir Íslendingar, sem færir voru um að kenna öðrum. Magnús Pálsson, núverandi ritstjóri „Lögbergs", mun fyrstur manna hafa tekið að sér að kenna löndum sínum enska tungu í Winnipeg. Hafði hann numið málið að nokkurum mun áður hann fluttist hingað vestur og verið fljótur að skilja og taka eftir þýðingu orða og framburði, eftir að hann settist að í Winnipeg. Þessi kensla fór fram veturinn 1877–78 og var einstaklings-fyrirtæki. Með honum kendu Guðmundur Björnsson og Þorsteinn Einarsson, organisti. Stóð sú kensla yfir vanalegan skólatíma, fimm daga í hverri viku. Höfðu þeir þá um fjörutíu lærisveina og má telja víst, að menn hafi haft mikil not af þeirri kenslu.

### II. ORÐIN TIL ALLS FYRST.

Þegar Íslendingafélagið fór að halda fundi sína, lögðu menn kapp á að fylgja föstum reglum við fundahöld, eins og menn urðu varir við að gjört var í innlendum félagsskap öllum. Fundarstjórn var látin fara vel og skipulega. Menn fóru að temja sér þingsköp eftir enskum og innlendum hætti. Hver maður varð að biðja sér hljóðs og mátti ekki taka til máls fyrr en leyfi forseta var fengið. Á meðan fundur stóð, var eftirtekt hin besta ; menn sátu hljóðir eins og í kirkju og hlýddu á rökfærslu ræðumanns. Tók þá hver maður að æfa sig í því að tala skipulega, kækjalaust og blátt áfram, svo vel yrði tekið eftir máli hans, og þeim yrði yndi á að hlýða, er við voru staddir. Íslendingar urðu fljótt hrifnir af innlendum mælskumönnum, er þeir heyrðu tala opinberlega á mannamótum.

Þeir sáu, hve langar leiðir þeir voru á undan öllum Íslendingum, sem þeir höfðu heyrt tala. Þeim fanst það íslenskt ræðuhald, er þeir þektu, vera líkast því að heyra stamandi mann og málhaltan vera að stynja upp erindi sínu, í samanburði við annan, sem vel er máli farinn og kann að beita öllum reglum listarinnar, til að sannfæra aðra og hafa áhrif á hugsun þeirra og hjarta. Þeir stórfurðuðu sig á því, hve myndarlega innlendir alþýðumenn gátu komið fram á mannamótum. Þeir töluðu oft og tíðum eins snjalt og þó þeir hefðu ekki annað haft fyrir stafni frá blautu barnsbeini, en að halda ræður.

Menn skildu, að það var æfingin ein, sem í þessu gæti orðið þeim að liði. Á fundum Íslendingafélagsins fóru menn að æfa sig í að tala. Fyrsti árangurinn var sá, að þar var talað alveg óskaplega mikið. Hver spreitti sig í kapp við annan. Menn hugsuðu ekkert um að láta málalenging standa í nokkurn veginn réttu hlutfalli við þýðingu smámála þeirra, sem um var að ræða. En menn töluðu í belg og biðu — spunnu langar ræður út af litlu efni eða engu, fóru út í alls konar sálma, sýndu fram á hugsunarflækjur og óskaplegar kórvillur hjá þeim, sem á undan höfðu talað, urðu stundum eins heitir og þó velferð lands og lýða hefði hangið á hinum veika þræði rökfærslu þeirra, jafnvel þó hver bláþráðurinn væri þar við annan.

Öll þessi mælgi og málalenging var í rauninni sprottin af þeirri lofsverðu löngun, að allir voru dauðþyrstir í að verða mælskir menn. Menn héldu, að mælskan væri eins konar töfrasproti eða Aladdinslampi, sem ekki þyrfti nema ofurlitla ásnerting, til að komast til frægðar og frama með í hinum nýja heimi, og höfðu það álit á sjálfum sér og Íslendingum yfirleitt, að þeir væru eiginlega fæddir mælskumenn. Til þess nú að æfa þenna meðfædda hæfileika sinn, þektu menn ekki aðra aðferð beinari né betri, en að nota tækifærið sem best, til að ausa úr sér, hve nær

sem tækifæri bauðst. Menn hertu sig eins og drengir að leik, hver í kapp við annan.

Og því er ekki að neita, að mönnum fór stórkostlega fram. Marga hafði áður brostið einurð til að segja meining sína í fjölmenni. Einurðarleysið hvarf eins og næturvofa við uppkomu sólar. Nú hafði hver maður nógan kjark, til að segja það, er honum bjó í brjósti, og lét sér ekki til hugar koma að draga neitt úr. Hér voru allir jafnir; engan var að óttast. Umkomulaus íslenskur almúgamaður hafði eins mikinn rétt til að hugsa og láta hugsanir sínar í ljós eins og nokkur höfðingi. Það var gott að vera kominn til Vesturheims.

Það var vorloft í kring um menn. Þeir soguðu það til sín, eins og þeir hefðu aldrei áður þekt það. Það angaði af gróðri í hugum manna. Um leið og einhver komst í skilning um eitthvert atriði í lögum, landsháttum og viðskiftalífi, fléttaði hann það inn í ræðu sína á næsta fundi. Á þann hátt hjálpaði hver öðrum. Og á sama hátt var líka margur misskilningurinn leiðréttur.

En ekki var Íslendingafélagið nóg til að fullnægja þessari þrá manna. Brátt risu upp ýms kappræðufélög, og svo félag á fætur félagi, þar sem mönnum gafst tækifæri til að leiða hesta sína saman. Alt fór þetta friðsamlega fram, af hve miklu kappi sem leikurinn var sóttur. Líkast var þetta að mörgu leyti glímufundum upp til sveita á Íslandi. Sá, sem öllum hafði skelt, var eiginlega í mestum hávegum hafður.

Þó mun hið ólíka í hugsunarhætti manna og lífsstefnu fljótt hafa komið fram við þessi ræðuhöld, því þar var innri maðurinn ekki dulinn. En það verður ávalt til þess að draga þá hverja að öðrum, sem líkir eru. Og það er fyrsti vísirinn til flokkamyndunar í hvaða mannfélagi sem er.

## 12. FRÁ KLERKUM.

Fyrsti presturinn íslenski, sem til Winnipeg kom,

mun verið hafa síra Páll Þorláksson. Hann fór til Nýja Íslands þegar haustið 1876, en dvaldi þar þá einungis skamma stund. Hann kom þar aftur í októbermánuði haustið 1877 á ferð sinni ofan til Nýja Íslands, þar sem hann ætlaði sér að dvelja um veturinn. En að líkindum hefir hann enga guðsþjónustu haldið í það skifti meðal Íslendinga í Winnipeg. Seint í sama mánuði kom síra Jón Bjarnason til Winnipeg sunnan frá Minneapolis. Hann hafði þá verið kallaður til Nýja Íslands og var á ferð þangað. Varð hann að bíða í Winnipeg níu daga eftir farangri sínum. Sunnudaginn 21. október 1877 flutti hann fyrstu guðsþjónustu meðal Íslendinga í bænum í skólahúsi tilheyrandi Meþódista kirkju einni (*Grace Church*). Fór hann svo ofan til Nýja Íslands, og þar voru þeir prestarnir báðir um veturinn.

En við og við komu þeir sinn í hvert skiftið til Winnipeg. Munu þeir þá ávalt hafa haft þar guðsþjónustur. Svo fór í Winnipeg sem niðri í Nýja Íslandi, að það var sinn hópurinn af fólki, sem aðhyltist hvorn þeirra. Samt voru það töluvert mikið fleiri, sem aðhyltust síra Jón Bjarnason, enda myndaði hann reglulegan söfnuð, og var hann ,,Þrenningarsöfnuður'' nefndur. Er það fagurt nafn og hæfilegt og hefði átt að haldast fram á þenna dag og tekur því nafni mikið fram, er söfnuðurinn síðar tók upp. Ætti vel við fyrir söfnuðinn, að taka nú það nafn upp aftur, og kalla kirkju sína Þrenningarkirkja. Söfnuður þessi var stofnaður 11. ágúst 1878. Til fulltrúa voru kosnir Jón Þórðarson, Arngrímur Jónsson og Andrea Fischer. En til djákna Arngrímur Jónsson, Helga S. Þorsteinsdóttir og Jóhanna Skaftadóttir frá Reykjavík. Síra Páll hefir ekki, að því er séð verður, myndað eiginlegan söfnuð, en hafði hóp af fólki, sem var honum fylgjandi, sótti öll prestsverk til hans, þegar unt var, og skoðaði hann sem andlegan leiðtoga. Oftast munu guðsþjónustur hafa haldnar verið í húsi Ís-

lendingafélagsins, sem ávalt var með fúsu geði í té látið, þegar ekki var á öðru betra völ.

Arið 1878 hefir síra Jón Bjarnason flutt fimm guðsþjónustur. Þá voru afar-miklir örðugleikar á því að komast á milli Nýja Íslands og Winnipeg. Fyrsta febrúar hefir hann haldið trúarsamtal og bænagjörð á föstudagskveld. Munu þá Íslendingar hafa þegar verið farnir að hafa slíka trúarsamtalsfundi á föstudagskvöldum. Sunnudaginn næstan á eftir (4. e. þrett.) flytur hann reglulega guðsþjónustu í húsi Íslendingafélagsins (3. feb.). Að sumrinu til kom hann hingað tvisvar og flutti guðsþjónustur, í fyrra skiftið þriðjudagskveldið 9. júlí í húsi Íslendingafélagsins. En í seinna skiftið sunnudaginn 18. ágúst og var sú guðsþjónusta höfð undir berum himni í nánd við hið svo-nefnda innflytjendahús á Rauðárbökkum, því þá var fjölmenni svo mikið, að ekki komst fyrir í húsum inni. Um haustið kom hann upp eftir í síðasta sinni það árið og flutti guðsþjónustu í húsi Íslendingafélagsins sunnudagskveldið 10. nóvember, og veitti hann fólki þá altarissakramenti um leið.

Árið eftir (1879) hefir hann flutt jafnmargar guðsþjónustur, en kallar þó eina þeirra ,,húslestur með bænagjörð''. Tvær af þessum guðsþjónustum hafa farið fram í húsi Íslendingafélagsins, en þrjár í *Zions* kirkju Meþódista. Eftir áramótin kom hann til Winnipeg, þá alfarinn frá Nýja Íslandi, og kominn á ferð sína heim til Íslands. Flutti hann þá tvær guðsþjónustur, aðra laugardagskveldið 9. jan. (1880) og hina sunnudagskveldið 10. jan. Þótti þá Íslendingum í Winnipeg sem annars staðar skarð fyrir skildi, þar sem þeir urðu honum á bak að sjá.

Þó prestsþjónusta væri þannig fremur af skornum skamti, bættu guðsþjónustusamkomur þær, sem þegar voru byrjaðar á Íslendingahúsi Jóns Þórðarsonar áður en ísl. prestar komu til Winnipeg mikið um. Munu báðir prestarnir hafa hvatt menn til að halda þeim uppi og leggja sem besta rækt við þær, svo mönnum gæfist

stöðugt kostur á, að hafa guðs orð sameiginlega um hönd. Um áramótin 1877—78 var tekið að halda frjálsar trúarumræður á Íslendingahúsinu á hverju föstudagskveldi. Hefir þar víst margt á góma borið, því nokkuð voru menn reikandi margir hverir í þeim efnum um þetta leyti. Hve lengi þessir trúmálafundir hafa haldist, er ekki með öllu ljóst. En að minsta kosti mun þeim hafa verið haldið við fram undir vorið.

Það lítur út fyrir, að íslensku prestarnir hafi skírt fremur fátt af börnum þeim, sem fæðst hafa fyrstu árin. Að eins þrjú eru færð til bókar, sem séra Jón hefir skírt, frá því hann kom 1877 og þangað til hann fór 1880, og hafa þau sjálfsagt ekki fleiri verið. Mun það hafa komið til af því, hve sjaldan hann gat til Winnipeg komið. Má telja víst, að menn hafi farið til innlendu prestanna í bænum og fengið þá til að skíra fyrir sig, til þess að láta ekki börnin bíða of lengi óskírð. Því þess eru örfá dæmi, að íslenskir foreldrar hafi látið börn sín vera óskírð hér í landi.

Tíu hjónavígslur hefir hann framkvæmt áður en hann fór til Íslands. Fyrstu hjónin, sem hann gaf saman, voru Árni Jónsson og Guðbjörg Árnadóttir, og við sama tækifæri mun hann hafa gift þau Sigurð Júsúa Björnsson og Kristveigu. Rétt áður en hann lagði af stað í Íslandsferð sína gaf hann saman tvenn hjón: Árna Friðriksson og Sigurbjörgu Þorláksdóttur, en hin Gunnar Einarsson og Andreu Fischer.

Eina dauðsfallið, sem tilfært er, meðan síra Jón gengdi hér prestsverkum, er Sesselja Sigvaldadóttir, systir Árna Sigvaldasonar, sem áður var getið. Hann var nú um þessar mundir kominn suður til *Lincoln County* í Minnesota og hafði numið þar land. Hún var gift Jóni nokkurum Gunnlaugssyni, manni vopnfirskum, og var 27 ára gömul. Hún dó 29. ág. 1879 og var greftruð í grafreit Winnipeg-bæjar. Hún var merk kona og myndarleg. —Áður (18. apr.) hafði Íslendingur einn að nafni Einar Einarsson druknað í

Rauðá nálægt í Winnipeg. Hann reri ásamt hálfbróðsínum, Jónasi Jónssyni, sveini á 8. ári, út á ána. Bátnum hvolfdi á ferjustreng, en sveininum varð bjargað. Var Einar þessi eina stoð móður sinnar, er komið hafði að heiman sumrinu áður og mist mann sinn um haustið frá fjórum eða fimm börnum í ómegð. Að sönnu dóu tiltölulega mjög fáir fyrstu árin, en samt hafa þeir verið nokkurir. Að líkindum hafa þá enskir prestar verið við jarðarfarirnar.

### 13. UM SIÐFERÐI OG ANDLEGT LÍF.

Mörgum mun hafa fundist, að þeir vera eins og komnir út á hálan ís, þegar hingað var komið vestur í flestu tilliti. Þeim mun hafa fundist hættan æðimikil, að verða nú fyrst algjörlega undir í baráttunni, verða fótum troðnir sem ormar í moldu, — feykjast eins og strá fyrir vindi, þangað sem maðurinn glatar sjálfum sér, og enginn framar veit, að hann hafi nokkurn tíma verið til.

Hjá alvörumönnunum hefir þessi ótti orðið til að róta upp andlegu lífi þeirra. Þeir tóku því af öllu afli í sterkustu taugarnar, sem binda manninn við lífið og héldu sér þar dauðahaldi.

Hvílíkt óumræðilegt átak það var fyrir margan manninn að rífa sig upp, — slíta sig með rótum upp úr andlegum jarðvegi fósturjarðarinnar. Menn fundu það best eftir á, þegar vestur var komið, og þeir í einveru og tómi fengu gjört sér það ljóst, hvað það nú eiginlega var, sem þeir hefðu gjört. Þá var hugurinn sár, eins og opin kvika, er ekki mátti snerta.

En ekkert er það efunarmál, að margur hefir fyrir það átak orðið að meira manni. Við það vöknuðu menn upp af löngum dvala og aðgjörðalausum svefni. Þeir fundu nú sjálfa sig, — urðu varir við andlegan auð, er þeir geymdu í innra manni sínum, og þá aldrei áður hafði dreymt um.

Þeir fundu nú til þess, að þeir voru komnir inn á milli skerja með líf sitt, gæfu og velferð. Það mátti

engu muna svo báturinn ekki brotnaði í mul þá og þegar. Hvað gjöra allir alvarlegir menn, þegar svo er ástatt? Þeir fara að rækja trú sína. Þeir fara þá af öllu afli að halda sér í þá hönd, sem stýrir örlögum mannanna.

Það dylst engum, er skilja vilja til hlítar fyrstu baráttu landa vorra í þessum nýju heimkynnum, að það er óvenjulega heitur straumur af trú, sem fylgir fyrstu átökum þeirra og ber þá áfram.

Á hinn bóginn er þetta ekki eina einkennið á frumbýlingsárum Íslendinga í Ameríku. Maður verður var við annan straum, sem alveg gengur í gagnstæða átt, enda fylgir honum miklu háværari niður.

Mörgu af unga fólkinu hætti við að fleygja sér algjörlega út í glauminn og sollinn. Það fór að álíta alla alvöru heimsku og allar gamlar lífsreglur óhafandi kreddur. Einkum fór illa fyrir margri efnilegri íslenskri stúlku. Freistingarnar voru kring um þær á allar hliðar. Þær voru langt frá foreldrum og vinum, einar í vistum hjá erlendu fólki, sem þær litu upp til, þó það liti niður á þær. Hverju brosi og gamanyrði trúðu þær eins og nýju neti og héldu, að þær væru á leiðinni til að verða aðrar eins hefðarfrúr og húsmæður þeirra, sem aldrei drápu hönd sinni í kalt vatn, þegar þær komust í kynni við einhvern innlendan mann.

Sumar þeirra gengu þá líka að eiga innlenda menn. En ekki þóttu þær allar sælar, er í hjónabandið var komið. Jóhanna nokkur frá Akureyri bjó með dóttur sinni, Helgu, í einum skálanum niður með Rauðá. Helga þessi giftist innlendum manni, *Marlo Fadden* að nafni; hann var fyrsti stýrimaður á gufuskipinu *Manitoba*, sem gekk á Rauðá. Ragnheiður Sigfúsdóttir Jónssonar frá Krossanesi við Eyjafjörð giftist einnig manni innlendum skömmu eftir að hún kom að heiman, en var skamma stund saman við hann. Dálitlu seinna giftist systir hennar, Kristín, einnig manni innlendum, sem heyrði til leikflokki einum, er kom til bæjarins. Valgerður Hjaltsteð, systir

Jakobs Jónssonar, sem nú er suður í Norður-Dakota, gekk einnig að eiga innlendan mann ; höfðu þau um tíma gistiskála einn í bænum, sem *Metropolitan Hotel* nefndist. Margar fleiri mætti nefna. Einstöku þeirra hepnaðist hjónabandið vel. En flestar hreptu eigi annað en harma og ólán. Flestar eru þær nú týndar, svo menn vita nú ekkert um þær ; en einstöku hafa því sem næst dregið menn sína inn í Íslendingahópinn og staðið ágætlega í stöðu sinni.

Þegar hugsað er um, á hve lágu stigi siðferðið er í mörgum sveitum á Íslandi, og hve vægan dóm almenningsálitið þar fellir yfir því, þó ógiftar stúlkur hrasi, og margfaldar svo freistinguna með því, sem bent hefir verið á hér að framan, furðar engan, þó slíkt ætti sér stað í fyrstu og setti ljótan og raunalegan flekk á sögu fyrstu ára ísl. nýlendunnar í Winnipeg. Það er meiri furða, að þetta skyldi lagast á tiltölulega skömmum tíma. Nýtt almenningsálit skapast hjá Íslendingum sjálfum, er miklu harðar tekur á slíkum siðferðisbrotum en títt hefir verið með þjóð vorri um óralangan tíma. Og afleiðingin er, að siðferðisbrot þessi eru fyrir nokkuru síðan nálega horfin eða orðin eins sjaldgæf og þau munu vera í nokkuru öðru mannfélagi.

Um trúarskoðanir manna um þetta leyti átti það heima, sem skáldið segir, að ,,mörg var skoðun og margbreytt lund''. Íslendingar eru heilmiklir heimspekingar í aðra röndina. Þeir hafa manna mest gaman af að leika sér með hugmyndir. Þetta kemur einkum og sér í lagi fram í trúarskoðunum þeirra. Ímyndunarafl þeirra vaknaði við að koma í nýtt land og komast í kynni við nýja mannfélagsskipun og nýja þjóðhætti. Fyrir margra hluta sakir voru trúarbrögðin ofarlega í hugum Íslendinga eins og bent hefir verið á hér að ofan. Ímyndunaraflið varpaði sér nú inn á svæði trúarbragðanna og velti hugmyndum kristindómsins fram og aftur. Það var eiginlega álitið sjálfsagt, að hver hefði sérstaka trúarskoðun út af fyrir

sig. Svo þráttuðu menn fram og aftur um hvað rétt væri. Það varð líkt og á Grikklandi og í Litlu Asíu í fornöld, þar sem stafkarlar og beiningamenn leiddu saman hesta sína út af dýpstu leyndarmálum tilverunnar. Menn töluðu um trúarbrögðin á strætum og gatnamótum. Það hófst þegar á fyrstu árum Íslendinga og hélst við með ýmsum litbreytingum að minsta kosti liðugan tíu ára tíma, fram yfir 1890 eða rúmlega það.

Hið ytra tilefni voru eflaust ágreinings-umræður þær um kristindóminn, sem risu upp meðal þeirra prestanna í Nýja Íslandi, síra Jóns Bjarnasonar og síra Páls heitins Þorlákssonar. Það sem þeim bar á milli, mun aðallega hafa verið, í hverju það sé fólgið að vera lúterskur maður. Um það höfðu Íslendingar alls ekki hugsað. Almennan kristindóm höfðu þeir meira og minna ljósar hugmyndir um; kristnir menn vildu þeir vera og tóku það mjög óstint upp, ef gefið var í skyn, að þeir væru það ekki. En að vera lúterskur, — var það ilt eða var það gott? Menn fóru að hugsa og leitast við að skilja, því þetta var þeim alveg nýtt; áður höfðu þeir alls enga hvöt til þess haft, að gjöra sér grein fyrir því. Margir komust að þeirri niðurstöðu, að það væri ilt og eintóm heimska; að minsta kosti væri margar aðrar trúarstefnur miklu heppilegri og betri; þeir væru hreint ekki lúterskir og hefðu aldrei verið.

Miklu fleiri voru það nú samt, er komust að þeirri niðurstöðu, að þeir vildu halda fast við hina lútersku feðra-trú sína. Þeim mönnum kom saman um, að nauðsynlegt væri fyrir Íslendinga eins og aðra að mynda söfnuði. Með því einu móti væri þeim unt að starfa að efling og viðhaldi kristinnar trúar og siðmenningar í hinum nýju heimkynnum. Annars mundi trúarlífið alt lenda á ringulreið og deyja út. Glataði maðurinn trú sinni, væri hann á góðri leið til að glata sjálfum sér. Og glataði það brot þjóðar vorrar trú

sinni, sem flutt væri vestur, mundi það um leið glatað og horfið úr sögunni.

Um þetta leyti var prestur einn innlendur í Winnipeg, er *Silcox* nefndist. Hann fór síðar vestur á Kyrrahafsströnd og var þar mörg ár, en er nú fyrir nokkuru kominn aftur til bæjarins. Hann tilheyrir trúarflokki hinna svo-nefndu *Congregationalista* og þjónaði söfnuði þeirra í Winnipeg. Hann er mælskur maður í besta lagi, gáfaður og mentaður vel. Hann prédikaði um þessar mundir í leikhúsi, sem var yfir markaðinum. Býsna margir Íslendingar gengu þangað og hlýddu þar helgum tíðum. Dáðust þeir að ræðum hans og þóttust mikið á þeim græða. Fáir eða engir munu hafa gengið inn í söfnuð hans, en enga kirkju innlendra manna munu Íslendingar hafa sótt eins mikið og hans, og prestverk mun hann hafa mörg fyrir þá unnið.

## 14. Frá Árna Friðrikssyni.

Maður er nefndur Friðrik Jónsson. Hann var sonur Jóns Jónssonar frá Snartastöðum í Axarfirði. Hann bjó á Hóli á Melrakkasléttu á Íslandi. Hann var maður vel gefinn, stiltur í lund, yfirlætislaus og hvers manns hugljúfi. Syni átti hann fjóra og hétu þeir Friðjón, Árni, Olgeir og Friðbjörn. Frá Hóli fluttist Friðrik að Sjávarlandi í Þistilfirði og þaðan að Kúðá í sömu sveit. Misti hann þar konu sína og voru þeir bræður þá ungir. Ári eftir fráfall hennar brá Friðrik Jónsson búi og varð að láta syni sína frá sér. Réðst Friðjón að Harðbak á Sléttu, en Árni í vist að Ytra-Álandi í Þistilfirði. Nokkuru síðar fluttist Friðrik Jónsson inn á Akureyri og vann þar að skipasmíð, en til Ameríku fór hann ekki fyrr en nokkurum árum síðar. Árni fór inn að Garði í Fnjóskadal til Friðgeirs Olgeirssonar, frænda síns, og þaðan inn á Akureyri. Það var árið árið 1871. Þar var hann í tvö ár. En þaðan fluttist hann til Ameríku með Friðjóni, bróður sínum, árið 1873.

Friðjón Friðriksson hélt alla leið til Milwaukee, en Árni staðnœmdist í Toronto. Þegar þar var komið, var hann í 16 dala skuld fyrir fargjald sitt vestur. Í Toronto var Árni rétt tvö ár og vann þar stöðugt við skósmíði; var það á verksmiðju einni, þar sem 450 manns unnu stöðugt. Baldvin Baldvinsson, ritstjóri Heimskringlu, var þá á unglingsaldri og vann þar með honum. Höfðu þeir orðið samferða frá Akureyri og gengið í eins konar fóstbræðralag, af því báðir stunduðu sömu iðn. Þeir settust að í Toronto fyrstir allra Íslendinga og voru þar ekki aðrir um það leyti. Kaupgjaldið á verksmiðju þessari var 4 dalir um vikuna, en á gestaskálum borgarinnar kostaði fæði jafn-mikið, eða 4 dali um vikuna fyrir fæði og húsnæði. En með því Árni kom sér vel við fólkið, sem hann bjó hjá, lét það sér nægja, að hann borgaði 3 dali um vikuna. Þá hafði hann einn dal afgangs og þóttist góður. Þegar hann hafði unnið árlangt á verksmiðju þessari, var kaupið fært upp í 6 dali. Síðar réðist hann á aðra verksmiðju þar í borginni og fekk þá 8 dali um vikuna; þar var hann þrjá mánuði, en þá fór sú verksmiðja á höfuðið. Fór þá Árni Friðriksson til Kinmount, bæjar þess, sem áður hefir nefndur verið. Þá voru Íslendingar þar í þann veginn að taka sig upp og flytja vestur. Slógst þá Árni í förina með þeim. Það var árið 1875.

Hann settist að í Winnipeg og var þar veturinn 1875—76. Vann hann þar hjá skósmið einum að eins fyrir fæði sínu, þangað til 1. maí um vorið. Fekk hann þá sex dali um vikuna og síðar átta. Í októbermánuði haustið 1876 flutti hann ofan til Nýja Íslands um það leyti, sem stóri hópurinn kom frá Íslandi, var þar um veturinn og sumarið og næsta vetur á eftir. Vorið 1879 flutti hann til Winnipeg.

Seint á vetrinum (22. feb.) auglýsir hann, að hann ætli sér að hætta við skósölu þá, sem hann hafði byrjað á að Gimli, og flytja burt úr nýlendunni. Þenna tíma, sem hann dvaldi í Nýja Íslandi, hafði hann kom-

ið upp dálítilli verslun með skófatnað og unnið að skósmíð sjálfur. En alt var þetta í smáum stíl. Hvorki voru efni mikil, né mikil eftirspurn eftir skóm hin fyrstu árin. Létu flestir sér nægja að ganga á ,,íslenskum skóm" úr nautaskinnum eins og þeir höfðu vanist á Íslandi. Og 23. júní 1879 auglýsir hann aftur, að hann hafi byrjað verslun í Winnipeg-bæ. Segist hann versla með alls konar nauðsynjavörur, svo sem kaffi, sykur, te, ost, smjör, haframjöl, epli og aðra ávexti, tóbak og sápu, skrifbækur, pappír, skriffæri og skófatnað af ýmsum tegundum. Sölubúð hans var vestan megin á Aðalstræti, skamt fyrir norðan ráðhús bæjarins (*City Hall*) og markaðinn. Hafði hann leigt þar hús eitt fyrir 12 dali um mánuðinn. Í framhluta þess hafði hann ýmislegan varning, sem nefndur er í auglýsingunni, annars vegar, en hins vegar skófatnaðinn. Fyrir aftan búðina hafði hann vinnustofu, þar sem hann vann að skósmíðum, en aftast í húsinu herbergi, þar sem hann bjó.

Þetta var nú fyrsta íslenska verslunin, sem upp kom í bænum Winnipeg. Hún var í smáum stíl, en gekk þó eftir vonum. Gróðinn var eðlilega ekki mikill, en þó dálítill. Árni Friðriksson ávann sér fljótt hylli og tiltrú hinna innlendu skiftavina sinna, er hann keypti vörur sínar að. Í janúar 1880 gekk hann að eiga Sigurbjörgu Þorláksdóttur Björnssonar frá Fornhaga í Hörgárdal, eins og áður er á vikið.

Ekki gekk nú verslunin betur en það, að haustið 1880, þegar Árni hafði rekið hana hér um bil árlangt, seldi hann hana Gísla nokkurum Jóhannssyni úr Skagafirði fyrir kring um 300 dali. Flutti Árni sig þá suður til *Pembina County* í Norður-Dakota. Hafði tengdafaðir hans numið þar land, skamt frá bænum Pembina. Þar nam nú Árni einnig land og fór að búa á því vorinu eftir. Var hann þar sumarið og veturinn 1881—2. Þá flutti hann til smáþorpsins *Cavalier*. Var þá verið að leggja járnbraut norður eftir og átti hún að liggja yfir Pembina County frá suðri til norðurs (*Great North-*

*ern*). Voru bæirnir *St. Thomas og Cavalier* báðir að keppa um að fá brautina til sín, og héldu margir, að Cavalier mundi verða hlutskarpari. Ætlaði nú Árni að verða þar fyrir henni og byrja þar verslun um leið og brautin kæmi, því honum fanst hann bresta þrótt og heilsu til að stunda akuryrkju. Þar dvaldi hann eina 4 mánuði, þangað til útséð var um, að brautin kæmi þangað, því St. Thomas varð hlutskarpari. Haustið 1882 fór Árni aftur norður til Winnipeg. Hann hafði ekki auðgast mikið af för sinni suður. En ekki kom honum til hugar að gefast upp í baráttunni fyrir það.

Árni Friðriksson er lítill maður vexti, ekki sterkur á heilsu og dálítið fatlaður. Hann kól eitt sinn heima á Íslandi og var þá nærri því orðinn úti, stórskemdist á báðum fótum og hefir aldrei náð sér síðan. En þrátt fyrir það hefir naumast nokkur maður í hópi Vestur-Íslendinga sýnt aðra eins elju og atorku, aðra eins sparsemi og sjálfsafneitun, annan eins dugnað og fyrirhyggju og hann. Enda átti það fyrir honum að liggja að komast fram úr flestum löndum sínum í efnalegu tilliti; og marga félagsbyrðina hefir hann borið sem öðrum mönnum hefði ofætlun verið.

Í sambandi við þessa fyrstu verslunarsögu Íslendinga í Winnipeg má geta þess, að þeir Jón Júlíus Jónsson frá Akureyri og Árni Sigvaldason seldu 115 sekki hveitimjöls í Nýja Íslandi rétt eftir nýár 1878. Seldu þeir sekkinn á rúmlega 3 dali, meira og minna eftir gæðum. En stöðuga verzlun hafði enginn Winnipeg-Íslendingur reynt að reka, áður Árni Friðriksson kom til sögunnar.

## 15. ENN UM ATVINNU OG VINNUBRÖGÐ.

Þegar fram í sótti, var fjöldi af íslensku kvenfólki í vistum í Winnipeg. Kaupgjald fór nú hækkandi, eftir því sem þær lærðu málið og gátu leyst hússtörf vel og myndarlega af hendi. Fljótt fekk hver íslensk vinnukona 10 dali um mánuðinn. Ýmsar íslenskar

konur fóru að halda þvottahús og þótti það borga sig betur en vinna í vistum. Er sagt, að Elin nokkur, kona Guðlaugs Guðmundssonar, en skilin við hann, hafi verið ein hin fyrsta þeirra. Sigurbjörg nokkur Hannesdóttir var yfirmatreiðslukona á gistiskála og hafði 25 dali í kaup um mánuðinn. Það var mesta ógrynni af peningum, sem íslenskt kvenfólk vann sér inn í Winnipeg fyrstu árin. Enda voru þær bjargvættir foreldra sinna víðs vegar um bygðirnar og unnu þeim miklu meira gagn oftast nær en synirnir. Sumir foreldrar komu fyrst dálitlum efnum fyrir sig með fé því, er dætur þeirra sendu þeim heim úr vistum í Winnipeg. Vitaskuld gekk oft og tíðum æði-mikið fé fyrir hatta, kjóla og annað prjál, því fljótt fór íslenska kvenfólkið að hafa gaman af að ganga vel til fara, og var því það ekki láandi, þegar ekki var of-langt farið. En meðalhófið er vandratað í því sem öðru, og svo kann að hafa virst sem sumar hefðu fult í fangi með að vinna fyrir fötunum, hve hátt sem kaupgjaldið var. En margar voru íslensku stúlkurnar sparsamar og ráðsettar og fóru vel með sitt. Og enginn efi er á því, að meira lögðu dæturnar á sig fyrir foreldra og frændur og sýndu á þessum fyrstu árum meira göfuglyndi og sjálfsafneitun en synirnir.

En svo er þess að gæta, að miklu örðugra var um þessar mundir að fá atvinnu fyrir karlmenn en kvenfólk. Þess er getið í „Framfara" 23. des. 1878, að nýlega hafi komið maður ofan til Nýja Íslands frá Winnipeg. Hafi hann sagt vinnuleysi mikið efra; hafi hann farið 12 mílur vestur í land frá Winnipeg og hvergi getað fengið vinnu. 3. des. það ár var járnbrautinni lokið til Winnipeg.

Á vetrum var atvinna svo sem engin í Winnipeg fyrir karlmenn, sem ekki voru í vistum. Hið helsta var viðarsögun. Hún varð eins konar handverk gamalla manna og hefir það haldist síðan. Mátti þá sjá margan aldraðan Íslending ganga fram og aftur um stræti bæjarins með sög, saghest og exi, og vera nokk-

uð þreytulegan á svipinn. Hefir eitt af skáldum Vestur-Íslendinga, Jóhann Magnús Bjarnason, ort út af því efni,

Seint á vetri 1879 (22. feb.) stendur áminningargrein í ,,Framfara" frá ritstjóranum til Íslendinga í Winnipeg. Er þar tekið fram, að nú sé fjöldi orðinn af íslensku fólki í Winnipeg. Sumt af því nemi þar staðar einungis skamma stund, en sumt búi þar að staðaldri. En að sá orðrómur sé nú farinn að leggjast á, að margir eyði þar tímanum í iðjuleysi og ómensku og séu jafnvel kendir við ýmislegt slark, svo sem að liggja tímum saman á drykkjuhúsum bæjarins. Þeir vinni ekki nema með höppum og glöppum, en eyði því, sem þeir hafi unnið sér inn einn sprettinn, með því að hafast ekkert að tímum saman á eftir. Þessu er einkum bent til hinna svo-nefndu skálabúa. Eru Íslendingar í Winnipeg hvattir til að bæta ráð sitt í þessu efni. Það er tekið fram um leið, að íslenskir unglingspiltar mundu geta fengið sér góðar stöður í búðum, ef þeir reyndu. Winnipeg muni eiga fyrir höndum að verða nokkuð stór bær og framtíð Íslendinga þar ætti því að geta verið hin besta.

Seinna koma mótmæli gegn þessum ummælum ,,Framfara" frá nokkurum skálabúum (23. maí). Segja þeir, að Íslendingar í Winnipeg sinni vinnu, þegar hana sé að fá, og hafi ekki lagst í neina óreglu. Standa nöfn nokkurra þeirra undir mótmælum þessum og eru það alt myndarlegir menn, sem ekki munu hafa legið á liði sínu, né verið við nokkura óreglu kendir, og þótt sóma sínum hnekt með því að láta ummælum þessum ómótmælt. Sýnir ritstjórinn fram á, að bending sín hafi gjörð verið í góðri meiningu, og nokkurt tilefni muni þó hafa verið til hennar. Hefir það verið hér sem jafnan, að misjafn er sauður í mörgu fé. Menn hafa veitt aðgjörðaleysinu og óreglunni eftirtekt, af því slíkt átti ekki að eiga sér stað, og í bili gleymt hinum mörgu, er með öllu móti reyndu að bjarga sér sem best. Enda er bréf birt frá Winnipeg, sem færir sönn-

ur á mál ritstjórans að nokkuru leyti, og er þar staðhæft, að talsverð óregla eigi sér stað, einkum á húsi einu, er Íslendingahús sé nefnt. Þar séu dansar og slarksamkomur oft á hverju kveldi og séu lögregluþjónar farnir að hafa auga á því. Þeir meðal Íslendinga sjálfra í bænum, sem vandir voru að virðingu sinni og þjóðflokks síns, fóru líka fljótt að amast við þessu og hótuðu að kæra fyrir yfirvöldum, ef ekki væri ráðin bót á.

Um þetta leyti var fjöldi af Íslendingum til bæjarins kominn og mjög hart um atvinnu fyrir karlmenn. Hélst þetta við alt sumarið (1879) og kom mjög hart niður á Íslendingum, einkum skálabúum. Bættist það svo ofan á vandræði þeirra, að nú var þeim skipað að flytja burt af bökkunum við Rauðá, þar sem margir voru lengi búnir að hafast við. Þetta vinnuleysi hélst enn um langan tíma og varð mjög tilfinnanlegt. Veturinn 1879—80 var frostavetur mikill, svo meiri eldivið var eytt en vanalega. Var það vatn á mylnu sögunarkarlanna, sem þá höfðu dálítið meira að gjöra.

Nokkur umbrot eru um þessar mundir með Íslendingum í Winnipeg með að flytja burt úr bænum og gjörast bændur úti á landi. Brottfararhugur var mikill með mönnum um þetta leyti í Nýja Íslandi eins og kunnugt er. Fjöldi þeirra, er þar höfðu numið land, fluttu suður til Norður-Dakota. Fóru þeir ávalt um í Winnipeg á leið sinni suður og má nærri geta, að það hafi sett hugi manna í hreyfing. Enda misti Winnipeg nokkura af bestu mönnum sínum suður fyrir landamærin um þessar mundir. Þess er getið, að Árni Sigvaldason hafi flutt suður til Minnesota og numið land þar. Jón Þórðarson fór suður til Pembina og nam þar land. Jafnvel Árni Friðriksson finnur sig til þess knúðan að leita burt úr bænum og fara suður.

Veturinn 1880 fóru tveir Íslendingar frá Winnipeg alla leið vestur fyrir bæinn *Portage la Prairie* í Man., til að skoða land, og létu þeir mikið af landkostum þar vestur frá. Þar kváðu þeir mega fá bæði skóg

og sléttlendi eins og maður vildi, enda er þar einmuna land, sem betur hefði verið, að Íslendingar hefðu borið giftu til að ná í.

16. ÍSLENSKA ÞJÓÐFÉLAGIÐ.

Það er að segja af Íslendingafélagi því, sem vér höfum áður um getið, að það breytir nafni haustið 1878 og nefnir sig nú ,,Hið íslenska þjóðfélag í Ameríku". Nafnið er nokkuð einkennilegt og kann marga að furða á, hvers vegna menn hafi fundið ástæðu til að breyta því. En eflaust hafa menn haft í huga að nefna félagið *The Icelandic National Society*, þegar þess væri minst við enska menn eða í enskum blöðum og fundist það eitthvað myndarlegra, en að eins *Icelandic Society*.

Á fundi, sem haldinn var í okt. 1878, komu félagsmenn sér saman um, að verja sjóði sínum, sem þá var um 30 dalir, til styrktar prentfélagi Nýja Íslands. Keypti félagið þrjú hlutabréf í því. Þar að auk keypti Jóhanna Skaftadóttir eitt hlutabréf. Prentfélagsstjórnin er mjög þakklát fyrir styrk þenna og þakkar þeim alúðlega í blaðinu Framfara. Hún vonar, að félaginu verði tvöfaldur styrkur að þessu ,,heiðarlega verki landa vorra í Winnipeg, þannig að eftirdæmi það, sem þeir hafi gefið, verði fleiri löndum í Ameríku til hvatuingar að styrkja prentfélag Nýja Íslands með því að kaupa hlutabréf."

Kjörfundur var haldinn í félaginu í nóvembermánuði 1878. Var þá til forseta kosinn Jón Júlíus Jónsson frá Akureyri og mun hans síðar getið verða. Hann var þá ungur maður. En til skrifara var kosinn Bjarni Guðmundsson Dalsted og til féhirðis Helgi Jónsson, sem síðar varð ritstjóri *Leifs*, ættaður úr Skriðdal á Íslandi. Á gamlárskveld var hlutavelta haldin og græddust félaginu liðugir 16 dalir á henni. Á fundi, sem haldinn var 20. janúar 1879 tókst félagið enn á hendur að halda uppi húslestrum á sunnudögum og sjá um húsnæði, til þess halda megi guðsþjónustur

á hæfilegum stað, þegar prestar séu á ferðum. Einnig var á fundi þessum samþykt, að kaupa nokkuð af íslenskum sálmabókum og blaðið *Ísafold*.

Ekki er það fullkomlega ljóst, hvort íslenska þjóðfélagið hefir þótst taka í arf eftir Íslendingafélagið að sjá um, að sunnudagsskóli væri haldinn. Ef til vill hefir það álitið, að söfnuðurinn, sem myndaður hafði verið, ætti að sjá um hann. En mjög kvörtuðu menn yfir því um áramótin 1879—80, að helst liti út fyrir, að hann legðist niður. Tvær kenslukonurnar voru þá að fara. Jóhanna Skaftadóttir, sem látin er fyrir nokkuru fór suður til Pembina County, en Helga Þorsteinsdóttir var nú orðin gift kona. Andrea Fischer gekk að eiga Gunnar Einarsson. Hann hafði verið einn af stólpum Íslendingafélagsins og forseti þess um tíma og átt góðan þátt í félagsmálum yfirleitt. Hann var einn helsti og myndarlegasti Íslendingurinn í Winnipeg um þessar mundir, en hafði mist fyrri konu sína, og var nú að stríða fyrir kornungum börnum, sem seinni kona hans tók nú að sér. Sáu menn þá líka fram á það, að hún mundi ekki lengi geta veitt sunnudagsskólanum forstöðu, hve fegin sem hún vildi, enda varð líka sú raunin á. Tóku menn sér þetta nærri, því allar þessar konur, og Andrea Fischer ekki síst, höfðu getið sér besta orðstýr fyrir þetta kærleiksstarf sitt, sem þær höfðu á hendi öldungis umbunarlaust. Sáu menn, hve mikill missir þetta var fyrir íslensku börnin í Winnipeg, sem alla vega voru í hættu fyrir að verða fyrir óheppilegum áhrifum úr ýmsum áttum.

### 17. GUFUPÁTSKAUPIN.

Af eðlilegum ástæðum var sjaldan í stórræði ráðist af hálfu Íslendinga um þessar mundir. Bæði kann þá nú að hafa brostið áræði og þekkingu til þess. En einkum brast þá það, er mest er um vert í því sambandi. Auðlegðin var enn þá næsta lítil í garði þeirra, og þeir þóttust góðir, sem nokkurn veginn nóg höfðu bæði í sig og á.

Það þóttu því nýjungar miklar, þegar það barst út, að tveir Íslendingar hefðu sekir gjörst um þau stórræði að kaupa heilan gufubát, og að sá gufubátur hefði ekki minna kostað en 4,000 dali; átti sú geysiupphæð að gjaldast á einum fjórum árum. Íslendingarnir, sem í þetta stórræði réðust, voru þeir Sigtryggur Jónasson og Friðjón Friðriksson, bróðir Árna, sem verið hafði kaupmaður á Gimli í Nýja Íslandi síðan sú nýlenda var stofnuð. Kaup þessi munu hafa gjörst haustið 1879. En ekki er samt sagt frá þeim í ,,Framfara" fyrr en 24. janúar 1880. Gufubáturinn hét *Victoria* og hafði verið hafður í förum á Winnipegvatni og Rauðá æði-lengi; ætluðu þeir félagar nú að nota hann til flutninga framvegis.

En þar sem þeir félagar ætluðu aðallega að nota bátinn til trjáviðarflutninga, urðu þeir að láta gjöra barða tvo allmikla, er hlaða mætti timbrinu á, og kostuðu þeir ekki minna en 2,500 dali. Fóru þeir þá í liðsbón til Árna Friðrikssonar og báðu hann nú að hlaupa undir bagga og leggja nú fram fé nokkurt upp í barðana. Árni kvaðst ekki hafa mikið aflögu um þær mundir, því hann hafði fult í fangi með smáverslun þá, er hann hafði byrjað, en langaði þó til að sýna einhvern lit á því að hjálpa þeim félögum. Einn góðan veðurdag verður honum reikað inn á skrifstofu kaupsýslumanns eins, sem honum var að nokkuru kunnur, og hann hafði átt nokkur skifti við. Honum er þar vel tekið og maðurinn spyr hann að í hálfgerðri gletni, hvort það sé nokkuð, sem hann geti fyrir hann gjört í dag. Já, Árni heldur það. Hann geti lánað sér 250 dali, ef honum sýnist. Maðurinn glotti við tönn og spyr, hvað hann ætli sér með féð. Árni segir honum af bátskaupunum. Maðurinn yfirheyrir hann dálitla stund, til að komast eftir, hvort hann eða þeir félagar muni hafa nokkurt vit á að halda úti slíkum bát. Og þegar Árni hefir gjört honum nokkura grein fyrir fyrirætlunum þeirra og reynslu, sest maðurinn þegjandi niður, skrifar út ávísun á banka fyrir 250 dölum og

fær Arna. Segist Árni aldrei hafa furðað sig meir á nokkuru, því honum kom ekki til hugar, að maðurinn mundi gjöra þetta, þótt hann í hálf-gamni væri svo djarfur að kald-hamra þetta við hann. Sjálfur var maður þessi fremur fátækur, þó nú sé hann auðugur orðinn, og átti fult í fangi með það, sem hann var að brjótast í. Síðar varð hann borgarstjóri í Winnipeg, og sat þá Árni í öldungaráði bæjarins með honum. Um sumarið gat Árni borgað honum lánið, og þóttist þá góður.

Victoria var lítill bátur, en með honum fór fjöldi Íslendinga milli Nýja Íslands og Winnipeg. Það var eins konar viðburður í Winnipeg, þegar Victoria kom frá Nýja Íslandi, því þá áttu menn von á vinum og kunningjum og fréttum og sendingum. Það var líkast því, er póstskipið kemur frá Íslandi til Kaupmannahafnar.

## 18. MORMÓNAR.

Sumarið 1879 voru íslenskir Mormónatrúboðar á ferðinni og fóru með æsingar miklar bæði niðri í Nýja Íslandi og í Winnipeg. Þetta sumar hefir „Framfari" greinar meðferðis um Mormónavilluna. Var þá af einhverjum í Winnipeg skorað á síra Jón Bjarnason að taka til máls opinberlega gegn þeim. En hann álítur enga ástæðu til þess, og segist ekki gjöra það, nema kristileg hyggindi bjóði sér það. Ekki var laust við, að til væru þeir í Winnipeg, sem fremur hölluðust að kenningu þeirra, þó ekki yrði þeim mikið ágengt. En segja má það Winnipeg-Íslendingum til lofs, að þeir veittu yfirleitt villikenning þeirra öfluga mótspyrnu, svo þeir urðu frá að hverfa við svo-búið. Í Nýja Íslandi tóku menn sig saman um að leyfa þeim ekki að prédika í húsum sínum og hlýða ekki á rugl þeirra. Voru þar samtök um þetta bæði í söfnuðum síra Jóns Bjarnasonar og síra Páls Þorlákssonar, og í Winnipeg var þeim hálfgerður aðsúgur gjör, svo þeir fengu ekki haldist við og engu til leiðar komið. Auk

þess, sem Winnipeg-Íslendingum var ant um að aftra löndum sínum frá að lenda út í slíka villu, vissu þeir, að það mundi öllum þjóðflokki vorum til hinnar mestu hneisu í augum innlendra manna, ef það kæmist upp um þá, að Mormónavillan hefði marga áhangendur meðal þeirra.

## 19. SKEMTANIR.

Snemma var fjörugt með Íslendingum í Winnipeg, eins og bent hefir verið á hér að framan. Lítil tækifæri og fá höfðu menn samt til að stofna til nokkurra almennra skemtana fyrstu árin. Helsta skemtanin og besta voru fundahöldin og ræðurnar, sem þeim voru samfara. Snemma mun unga fólkið hafa farið að ,,létta sér upp", eins og það var kallað, þegar það kom saman. En mjög óvíða var nokkurt húsrúm til þess, þar sem Íslendingar bjuggu, því alls staðar var þröngt. Enda fóru dansarnir vaxandi eftir því sem húsakynni urðu dálítið rýmri, og voru menn þó ekki sérlega vandir að. En það var ekki fyrr en nokkuru seinna, að menn fóru að ,,skvetta sér upp" til muna, enda vildi það þá keyra nokkuð fram úr hófi.

Fyrsta almenna skemtunin, sem sögur fara af, að Íslendingar hafi stofnað til í Winnipeg, var ofurlítill sjónleikur, sem leikinn var á Íslendingafélagshúsi í janúar 1880. Það var leikurinn ,,Sigríður Eyjafjarðarsól" eftir Ara Jónsson á Þverá í Eyjafirði. Aðalleikendurnir voru Magnús Pálsson, sem um þetta leyti var fyrir flestum ungum mönnum með Íslendingum í Winnipeg og manna mest hafði áhrif á félagslíf þeirra, og Aldís heitin Laxdal, ekkja Gríms bókbindara Laxdal á Akureyri. Flestir Íslendingar, sem þess áttu nokkurn kost, munu hafa komið að sjá leikinn. Og meðal áhorfendanna voru þau síra Jón Bjarnason og kona hans, sem þá voru stödd í Winnipeg, eins og áður segir. Þótti flestum skemtunin ágæt. Því þó útbúningur og húsrúm muni hafa verið fremur í fátækara lagi, þóttust menn þó verða varir við heilmikla

leikendahæfileika. Sá, sem þetta ritar, hefir oft heyrt fólk, er naut þessarar fyrstu skemtunar á almennri samkomu Íslendinga í Winnipeg, taka til þess, hvað vel þeir hafi skemt sér.

En um eina skemtun verðum vér að geta, er Íslendingar í Winnipeg höfðu allmikið um hönd fyrstu árin. Það var býsna títt með þeim að koma saman og æfa sig í söng. Fyrir því gekst ungur maður frá Akureyri, Jón Júlíus Jónsson, er áður hefir getið verið. Þegar hann var að vaxa upp á Akureyri, var þar mikil rækt lögð við söng. Gekst fyrir því danskur kaupmvður, *Steincke* að nafni. Þá hafði Jón Júlíus lært að syngja, enda hafði hann lagleg hljóð og lipur. Nú kom þetta sér í góðar þarfir. Hann safnaði þeim saman, er eitthvað gátu sungið, og kendi þeim flest algeng íslensk sönglög og sálmalög líka. Mun Þorsteinn heitinn organisti Einarsson, bróðir Sigfúsar málara Einarssonar, sem nú er í Winnipeg, hafa stutt hann, og þeir hjálpast að. Var að þessu besta skemtun og ekki unt að verja tómstundum til annars betra.

20. YFIRLIT.

Hér að framan hefir nú verið bent á helstu atriðin í sambandi við fyrstu fimm frumbýlingsár Íslendinga í bænum Winnipeg (1875—1880). Lengra erum vér enn ekki komnir. Þessi fyrstu ár voru eðlilega erviðustu árin, ekki síst vegna þess, að þá var atvinna lítil og deyfð og drungi yfir viðskiftalífi landsins. Og frá þeim árum er í rauninni lang-minst sögulegt að segja.

En að þessum fyrstu fimm árum liðnum hefst nýtt tímabil í sögu Winnibeg-bæjar og fylkisins Manitoba. Og um leið hefst líka nýtt tímabil í sögu íslensku innflytjendanna, sem tekið höfðu sér bólfestu þar. Alt í einu rís viðskiftalífið úr dvala og þeir, sem enga trú voru farnir að hafa á landinu, rakna úr rotinu og verða varir við einlægar auðsuppsprettur alt í kring um sig. Um leið fer hagur Íslendinga að rísa við. Þeir eru

nú margir búnir að læra málið og eru farnir að skilja gang viðskiftalífsins nokkurn veginn. Þeir fara nú að lyfta höfðinu upp eins og aðrir og leitast við að koma fótum fyrir sig. Gróðahyggja landsins fer nú að snerta þá. Þá fer að langa til að sitja ekki hjá alveg aðgjörðalausir, þegar synir landsins sópa auðlegðinni ofan í vasa sína.

En um þetta tímabil fáum vér ekki talað þessu sinni, né heldur um það, hvernig þeir oftóku sig á fyrsta sprettinum, urðu þá daufir og varasamir um stund, en færðust í aukana aftur, er þeir skildu, að sá gróðinn er bestur og affarasælastur, er smám saman kemur upp í hendur manns sem endurgjald fyrir unnið starf og þreytuna og svitadropana, er því fylgir. Efnið er hið skemtilegasta og hugnæmasta, ef vel væri með farið. En hér skal nú staðar numið að sinni.

Það hefir verið leitast við hér að framan að bregða upp nokkurn veginn glöggri mynd af lífinu, sem menn lifðu fyrstu árin eftir að Íslendingar komu til Winnipeg. Það hefir verið reynt að láta þá mynd vera eins sanna og föng eru til. En þar sem þetta er fyrsta tilraunin, má búast við, að ýmislegt sé miður en skyldi, því þetta er ekki vandalaust ætlunarverk, þó lítið kunni að virðast í það spunnið. Þeir, sem betur kunna með að fara, geta þá síðar aukið það og lagfært, sem hér hefir byrjað verið. En enginn má ætla, að hér hafi nokkuru atriði viljandi verið haggað. Sé eitthvað ofsagt eða vantalið, er það einungis vegna þess, að höfundurinn hefir ekki betur vitað, enda erviðara viðfangs fyrir hann en margan annan, þar sem hann var hér ekki sjálfur og hvergi í hópi Íslendinga um þessar mundir.

Það er eigi unt að segja sögu hvers einstaks manns, enda yrðu það eintómar sundurlausar æfisögur, en engin heild. Á þann hátt er enginn þáttur mannkynssögunnar nokkurn tíma ritaður. Það er líka þýðingarlítið að telja upp ákaflega mörg mannanöfn, því á þeim er lítið að græða, og ávalt verða ein-

hverir út undan. Það gæti verið fróðlegt út af fyrir sig að eignast sérstaka skrá yfir íslenska landnámsmenn í Vesturheimi, ef til hennar væri vandað. En það er efunarmál, hvort það sé nú vinnandi verk, nema helst úti á landsbygðinni, þar sem menn enn þá muna nokkurn veginn rétt um alla, er búið hafa á hverri einstakri jörð, frá því land var numið í fyrstu. Slíka upptalning þeirra Íslendinga, sem átt hafa heima um lengri eða skemmri tíma í Winnipeg-bæ, mundi nú alls ómögulegt að gjöra. Því sífeldur flutningsstraumur hefir átt sér stað bæði fram og aftur, inn í bæinn og út úr honum, eftir langa dvöl eða skamma, svo nú yrði naumast unt að vita um einn tíunda hluta þess fólks, sem einhvern tíma kann að hafa talið heimili sitt þar. Enginn mætti því láta sér til hugar koma að lá það, þó engin tilraun sé hér gjörð í þá átt. En ef einhver finnur sig til þess knúðan, ætti hann að reyna að rita sögu eftir þeirri aðferð og vita, hvernig honum tækist það.

Á hinn bóginn er það rétt og sjálfsagt að geta þeirra manna til sögunnar, sem að einhverju leyti hafa látið meira til sín taka en aðrir, eða fyrir einhverra hluta sakir borið höfuðið hærra en almenningur og haft meiri áhrif á rás viðburðanna en alment gjörist.

Saga Vestur-Íslendinga er að einu leytinu mjög eftirtektaverð. Hún er saga þess, hvernig dálítið brot hinnar afskektustu og aðgjörðaminstu Norðurálfuþjóðar dregst inn á landamæri hinnar kappgjörnustu og stórstígustu framfaraþjóðar heimsins. Og um leið er þetta brot lítillar og umkomulausrar smáþjóðar komið inn í samkepnina við þá þjóð, sem mestan dugnað hefir sýnt í því, að leggja jörðina undir sig og færa sér auðæfi hennar í nyt. Útlendingar þessir koma allslausir,—öreigar svo miklir, að þeir hafa ekkert til næsta máls,—svo fákænir, að þeir kunna nálega ekkert verk að vinna, eða nokkurt orð að mæla á tungu landsins. Kring um þá er fult af fólki, sem að öllu

leyti stendur margfalt betur að vígi, og vanist hefir frá barnsbeini öllu því, er hinir verða nú að temja sér í fyrsta sinni.

Það er eftirtektavert, hvernig þessi barátta gengur. Ef hún hefði svo illa gengið, að Íslendingar hefðu orðið algjörlega undir í hinum nýju heimkynnum, látið aðra hrifsa brauðið frá munninum á sér og oltið út af í dáðleysi og ómensku, hefðu þær ófarir verið eins konar ömurlegur spádómur um ókomin örlög þess meirahluta þjóðarinnar, sem enn er að heyja ,,heimsins langa stríð'' á sögu-hólmanum forna. Hún er þar í sömu samkepnisbaráttunni, þótt þess verði ekki eins mikið vart, og dregst með hverju árinu lengra og lengra út í þá straumhörðu hringiðu. Ef allir þeir, sem til Vesturheims fluttust í þeim tilgangi að ryðja sér þar braut, hefðu þegar sokkið og alls enga sögu eignast, mundi það ekki hafa verið fremur raunalegur spádómur um það, að þjóð vor í heild sinni gæti ekki átt sérlega glæsilega framtíð fyrir höndum?

Þó engin mikil afreksverk hafi enn af Íslendingum í Vesturheimi unnin verið, og alls ekki sé yfir neinu að gorta, enda sómir það sér ávalt illa, er naumast unt annað að segja, en að saga þeirra, þó stutt sé, tali fremur um lífsmagn þjóðar vorrar en hið gagnstæða. Hún virðist færa fram ómótmælanlegar sannanir fyrir því, að töluverður málmur sé enn eftir í þjóðinni, og ekki svo lítið af dugnaði, bæði andlegum og líkamlegum, til að bjarga skútunni, þó komið sé í krappan sjó. Á þeim tímum, sem nú eru yfir þjóð vora að líða, þarf hún einskis framar, en að talaður sé í hana kjarkur og dugur, til að sækja betur fram og bíta betur bein fyrir sig í baráttunni fyrir tilverunni, heldur en henni hefir enn þá tekist.

Með hverju móti er best unt að gjöra þetta? Auðvitað má gjöra það á ýmsan hátt, en að vorri hyggju þó ekki síst með því að segja sögu Vestur-Íslendinga, eins og hún hefir gjörst þenna síðasta aldarfjórðung. Því hún sýnir oss, hvað menn og konur,

af íslensku bergi brotin, geta þó haldið í við aðra, ef þeir fá sig til að taka á af öllu afli. Hún sýnir oss, að aldrei hafa Íslendingar lagt eins mikið á sig og gengið eins nærri kröftum sínum. En hún sýnir um leið, að með þessu móti hafa heilir hópar þeirra náð því að standa jafnfætis keppinautum sínum í þeirra eigin landi. Og hún sýnir að síðustu, hve miklu meira mætti til leiðar koma á ættjörðu vorri ef sami áhuginn vaknaði til að bjarga sér, sömu átökunum væri beitt til að rífa sig upp úr forinni, sama viðleitnin höfð, til að læra af öðrum og mannast í smáu og stóru.

Þess vegna er hugmyndin sú, að leitast við í framhaldi sögu þessarar, að benda á helstu atriðin í baráttu Íslendinga í Vesturheimi á meðan þeir eru að koma fótum fyrir sig. Það verður bent á einstaka menn, sem að einhverju leyti hafa skarað fram úr í þeirri baráttu. Saga þeirra verður í rauninni saga ótal annarra. Hún verður eins konar skuggsjá, er vér sjáum í baráttu fjöldans. Í þeim kafla um sögu íslensku nýlendunnar í Winnipeg-bæ, sem nú er verið að rita, verða þeir menn nefndir til sögunnar, sem að einhverju leyti hafa þar borið höfuðið hærra, en aðrir landar þeirra. Báðar hliðar lífsins verður leitast við að sýna, eins óvilhalt og þeim er unt, sem á pennanum heldur.

Það kann að verða sagt af ýmsum, að hver tilraun til að rita sögu svo nærri sögutímanum hljóti að mishepnast. Langir tímar verði að líða, áður en sú útsýn myndist, að fella megi réttláta dóma um það, sem fram hefir farið. Ekki skal hér á móti þessu borið, enda ætlum vér að láta lesandann fella hvern þann dóm, er honum kann að finnast ástæða til um það, sem sagt er. Staðhöfnin sjálf er ávalt áreiðanlegasta sagan. Dómar manna um hana geta breytst og verið á ýmsum rökum bygðir, jafnvel þó langt sé um liðið. En til er þó það svæði sögunnar, er nefnist saga vorra eigin tíma, saga viðburðanna, sem eru að gjörast fyrir augum vorum. Og það er ekki álitið

einskis vert að gjöra sér grein fyrir þeirri sögu og rita hana, svo hún verði öðrum mönnum skiljanleg. Skal hér að eins með einu orði bent á hið fræga söguverk eftir *Justin McCarthy*, er hann nefnir *History of our own Times*, ritverk, sem ágætt þykir í sinni röð í bókmentum heimsins. Skyldi það því enginn óhæfu telja, þótt einhvern langi til að gjöra sér grein fyrir þeim atburðum, er gjörst hafa fyrir augum hans, um leið og hans eigin æfisaga.

Einkum hlýtur þetta að hafa dálitla þýðingu, ef þess er gætt, að útflutningar þeir, sem hófust frá Íslandi til Vesturheims fyrir fjórðungi aldar, eru ef til vill eitt þýðingarmesta atriðið í sögu þjóðar vorrar á seinni öldum. Það er þá ekki einskis vert að fá sanna sögu af því, hvernig því broti þjóðarinnar gengur, sem leggur af stað út í heiminn, eins og kotungssonurinn í æfintýrinu til að ná í kóngsdóttirina og kóngsríkið um leið.

---

# Tveir látnir landnámsmenn.

## Björn Jónsson.

Fyrir bænarstað útgefandans að almanaki þessu vil eg leitast við að rita fáar línar um föður minn heitinn, og leitast skal eg við að skýra frá jafn-hlutdrægnislaust eins og þó óviðkomandi maður ætti hlut að máli.

Björn Jónsson var fæddur í Krossdal í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu á Íslandi 2. október 1839. Foreldrar hans voru Jón hreppstjóri Kristjánsson og Guðný Sveinsdóttir. Albróðir Björns var Kristján skáld Jónsson, og voru þau börn ekki fleiri nema eitt stúlkubarn, er dó í æsku. Þá er Björn var á áttunda ári, en Kristján á fimta, mistu þeir föður sinn. Lentu þeir því snemma til vandalausra og ólust upp við ervið æfikjör. Björn var í vinnumensku á ýmsum bæjum í Kelduhverfi þar til árið 1860 að hann kvæntist Þorbjörgu Björnsdóttur frá Meiðavöllum og reisti bú á Vestaralandi í Axarfirði. Bjuggu þau hjón síðar nokkur ár bæði á Austaralandi í Axarfirði og Byrgi í Kelduhverfi og svo tíu ár á Ási í Kelduhverfi. Þaðan fluttu þau árið 1876 til Vesturheims og voru í hópi hinna mörgu landnema, er það ár komu til Nýja Íslands. Bláfátæk,



BJÖRN JÓNSSON.

sjúk og hrakin lentu þau seint í júlímánuði, eftir langa ferð og margfaldar hörmungar, þar sem nú er þorpið Gimli í Nýja Íslandi. Á opnum „flatbát" hafði Björn, eins og aðrir, hrakist með tjölskyldu sína niður Rauðá og norður Winnipeg-vatn. Mesta illveður mætti þeim á vatninu og bjargarlaust var á bátnum. Þar lét eitt barnið lífið; og er loks kom á áfangastaðinn, var að bera úr bátnum dauð og dauðvona börn. Náttmyrkur og rigning var fyrir á hinni eyðilegu strönd. Björn komst með fjölskyldu sína strax um kveldið í lítinn bjálkakofa, er átti Magnús Stefánsson frændi hans, einhleypur maður, sem til Nýja Íslands hafði komið árinu áður. Þar var hafst við um nóttina. Um morguninn voru engin matvæli til, en fólkið hungrað. Fór nú Björn að leita fyrir sér. Þess skal getið, að aleiga hans var 50 cents. Gengur hann nú suður eftir fjörunni og sér þá mann koma að landi með bát hlaðinn fiski. Biður hann manninn selja sér einn fisk. Það var íslenskur maður, kominn haustinu áður. Maðurinn gerir honum falan einn smáfisk á 35 cents. Björn fann, að maðurinn vildi hagnýta sér neyð hans með verðið á fiskinum. Rann honum í skap og hann gekk burt. En er hann mintist sultar fólksins í kofanum, sá hann það eitt ráð að láta undan. Sneri hann því að vörmu spori aftur til fiskimannsins til að kaupa smáfiskinn, og heyrði eg föður minn segja, að það hafi verið einhver sín þyngstu spor. Annan mann hitti hann og keypti af honum eitt brauð og gaf fyrir tóbaksplötu, er hann átti. — Eg hefi skýrt frá þessu svo nákvæmlega til að sýna kjör nýbyggjanna fyrir 26 árum.

Eftir þetta fyrsta stríð rættist vel fram úr. Björn fékk atvinnu strax um haustið við útbýting vöru þeirrar, er Canada-stjórn sendi í bygðina og Mr. John Taylor hafði umboð yfir. Í Nýja Íslandi var Björn í hálft fimta ár. Um veturinn 1877 var komið á hinni fyrstu stjórnarskipun í Nýja Íslandi. Var nýlendunni skift niður í fjórar bygðir og kosinn bygðarstjóri fyrir hverja bygð. Var Björn Jónsson valinn bygðarstjóri fyrir Víðinesbygð, og hélt hann því embætti meðan hann var þar og bar nafnið lengi þar eftir.

Í marsmánuði 1881 flutti Björn alfarinn úr Nýja Íslandi og nam land hið sama vor í Argyle-bygð í Manitoba. Var hann einn af hinum fyrstu að byggja þá nýlendu. Eitt ár dvaldi hann þó í Winnipeg áður en hann flutti til Argyle. Í Argyle bjó hann 20 ár og átti mikinn þátt í öllum málum þeirrar bygðar, þoldi þar alla örðugleika nýbyggjans á fyrstu árum, og fékk svo einnig að njóta hinnar miklu farsældar, er sú auðuga bygð hefir látið íbúum sínum í té.

Í fyrra sumar (júní 1901) lagði Björn Jónsson á stáð í kynnisför til Íslands. Hann var árlangt burtu. Kom heim aftur til Argyle 14

júní síðastl., og andaðist þrem dögum síðar, aðfaranótt 18. júní 1902. Ekkja hans og þrjú börn eru í Argyle, einn sonur er í N. Dakota og annar í Minnesota.

Birni Jónssyni hefir séra Jón Bjarnason lýst á þennan hátt: — ,,Hann var tígulegur maður, hár vexti, svipmikill, góðmannlegur, með örum tilfinningum og frábærlega hvössum skilningi og dómgreind, og með brennandi áhuga fyrir velferðarmálum almennings, allra manna skemtilegastur í viðræðu. Allir þessir eiginleikar gerðu hann að sjálfsögðum ,bygðarstjóra', leiðtoga, höfðingja, hvar sem hann átti heima. Sterkur flokksmaður var hann ávalt, en jafnan skipaði hann sér þar í flokk, er best gengdi, og sökum vitsmuna sinna og sanngirni gætti hann æfinlega hófs í flokksbaráttunni. Kirkju vora studdi hann af öllum mætti, og eins og skynsemi hans fór sívaxandi alt til dauðadags, svo varð hann og með ári hverju æ betur og betur kristinn maður."......,,Eg hefi lengi um hann hugsað með lotning og ást eins og sannkallaðan ,patríarka' í leikmannahópi Vestur-Íslendinga."—,,Sam." 17, 5.

Tvent er það, er mér einkum fanst auðkenna sálarlíf föður míns sál. Það var hugmynda-auðlegð og karlmenska. Vegna þess, hve rík af hugmyndum sálin var, var hann sérlega skáldlega hugsandi, hafði líka frábæra skáldskapar smekkvísi og orkti sjálfur ekki all-lítið, þó sjaldan birti hann skáldskap sinn. Og vegna þess, hvílíkt andlegt karlmenni hann var, leituðu menn til hans þráfaldlega í neyð og vanda; hann var svo sterkur og stiltur. En þó held eg að eitt enn hafi einkent hann mest, og það var hans djúpa, heilaga lotning fyrir guði. Hana hefi eg hjá engum manni þekt á hærra stigi.

Minneota, Minn., 17. október 1902.

B. B. J.

---

## Arni Sigvaldason.

Árni Sigvaldason var fæddur á Búastöðum í Vopnafirði 12. maí 1847. Faðir hans var Sigvaldi Jónsson, er enn lifir og er til heimilis hjá tengdadóttur sinni í Minnesota. Móðir Árna var Arnfríður Jónsdóttir. Hún dó árið 1860. Árni ólst upp í föðurgarði og á Hofi í Vopnafirði hjá Halldóri prófasti Jónssyni. Þegar á unga aldri þótti hann bera af jafnöldrum sínum að vitsmunum og framtakssemi. Ungur og einn síns liðs lagði hann af stað til Ameríku árið 1873 og var einn með allra fyrstu vesturförum. Fyrst eftir að hann kom til

þessa lands var hann í borginni Milwaukee og vann daglaunavinnu; en sökum þess, hve vel hann var að sér, komst hann flestum nýkomnum útlendingum betur áfram. Er hann hafði innunnið sér nokkurt fé, hélt hann til Madison, Wis., og kom sér þar í skóla Norðmanna. Kyntist hann þar ýmsum merkum mönnum þess þjóðflokks, t. d. próf. Rasmus B. Anderson. Um þær mundir stóð trúarbragðastríð Norðmanna sem hæst, og við þennan skóla var áhugi mikill fyrir trúmálum. Mun það hafa haft hin mestu áhrif á Árna sál. alla æfi, og ef til vill átt þátt í því, að hann lagði alla daga upp frá því kappsamlega rækt við trúarbrögðin. Engan íslenskan leikmann hefi eg þekt, sem fullkomnari þekkingu hafi haft á trúfræði en Árni, né fastar hélt við hreinan lærdóm lúterskra fræða.



ÁRNI SIGVALDASON.

Kringumstæðurnar leyfðu Árna þó ekki að halda til lengdar áfram náminu í Madison. Þaðan fór hann til Nýja Íslands og dvaldi þar og í Winnipeg rúmlega árlangt. Vorið 1878 kom hann til Minnesota og nam land í Lincoln County. Var hann einhver fyrsti landnemi í þeirri bygð. Í júnímánuði sama ár kvæntist hann Guðnýju Aradóttur, ættaðri frá Hringveri í Þingeyjarsýslu. Þau hjón eignuðust átta börn, og lifa sjö þeirra, en eitt mistu þau ungt.

Árni Sigvaldason gerðist þegar í upphafi höfðingi mikill í sinni bygð. Hann var forkólfur flestra félagslegra framkvæmda. Og svo ástsæll varð hann hjá sínum sveitungum og mikils virtur, að ekki þótti ráð ráðið nema fyrst væri undir hann borið. Hann gegndi lőngum helstu embættum í sveitinni, og friðdómari var hann í mörg ár. Honum búnaðist vel á landi sínu, og heimili hans var hin mesta sveitarprýði. Haustið 1898 var hann kosinn dómþings-ritari fyrir

Lincoln County. Flutti hann þá til stjórnarseturs þess héraðs, Lake Benton, en hélt þó búi sínu áfram eftir sem áður.

Fimtán árum fyrir dauða sinn kendi hann fyrst sjúkleika þess, er loks leiddi hann til bana, en það var krabbamein í vör. Hvað eftir annað leitaði hann til bestu lækna Bandaríkjanna, en þeir gátu að eins tafið fyrir hinu óumflýjanlega. Hann lá rúmfastur fjóra mánuði áður en hann lést og þjáðist mikið, en bar böl sitt með frábærlegu þreki og stillingu. Hann dó í Lake Benton 10. jan. 1901.

Óefað var Árni sál. Sigvaldason með hinum allra merkustu mönnum meðal þjóðflokks vors í þessu landi. Hann hafði flesta þá kosti til að bera, sem helst mega prýða sannan sveitarhöfðingja. Hann var gáfaður maður og vel að sér. Lundarlag hans var blítt og gott. Hjartað var hreint og elskulegt. Ávalt horfði hann á hina björtu hlið lífsins og kom jafnan með sólskinið og ljósið með sér, hvar sem hann kom. Ekki voru það einungis landar hans, sem virtu hann og elskuðu, heldur líka menn af öllum þjóðflokkum, sem honum kyntust. — Ef eg ætti að segja, hvaða þráður verið hafi sterkastur í sálarlífi þessa göfugmennis, mundi eg hiklaust nefna guðhræðsluna. Guðhræðslan gerði hann það, sem hann var. Hún hafði gagntekið alt hans sálarlíf, og hún kom fram í öllum orðum hans og athöfnum. Trúin hans var mesti virkileiki lífs hans. Hann vildi vera kristinn maður sjö daga — en ekki bara einn dag — í viku. Hvert íslenskt mannsbarn í Minnesota blessar minningu hans.

MINNEOTA, MINN., 17. október 1902.

B. B. J.

---



## Napoleon sigraður af konu.

Saga eftir Ernest de Balzac.

---

Það var í Berlínarborg, í nóvember-mánuði 1806. Korsiku-maðurinn smávaxni, hann Napoleon mikli, var enn sigri hrósandi, því þremur vikum áður en þessi saga gerðist, hafði hann lagt Prússaveldi að fótum sér, auðmjúkt og undirgefið,—eftir orustuna hjá Jena.

Það skorti ekki rán og gripdeildir í Berlín um þessar mundir. Sigurvegararnir sýndu lítið af manngæðum eða drenglyndi, því meðal annars rændu þeir kjörgripum öllum úr graf-hvolfi Friðriks mikla, sverði hans, krossum og heiðurs-merkjum öllum, og sendu til Parísar sem réttmæt sigurlaun. Satt sagt, var Napoleon sérlega rángjarn og ágjarn um þessar mundir og hikaði því ekki við að helga sér og ,,hernum mikla" meistaraverkin mestu og frægustu eftir málara og steinhöggvara, sem til voru í Berlín og Potsdam.

Stjórnvitringurinn nafnfrægi, Prins de Talleyrand,*) sat eitt kveld einsamall í híbýlum Napoleons í Berlín, þegar þessi sollur stóð sem hæst. Hvert þau ódæðisverk gerðu hinn tignaða húsbónda hans að meiri eða minni manni í augum hans, er nokkuð, sem enginn gat merkt. Sá mikli bragðarefur með bægifótinn opinberaði í engu sínar skoðanir, né heldur keisarans. Hann sat við borð og var að skoða syrpu

---

*) Charles Maurice de Talleyrand Périgard, Prins af Benevente, var nafn hans fult, en í daglegu tali var hann alment nefndur að eins Talleyrand. — Þýð.

af skjölum, sem þar voru frammi fyrir honum. Hann fór ofur-hægt að öllu, grand-skoðaði stundum eitt skjal öðrum fremur, og rispaði dálitla athugasemd á spássíuna á sumum. Borðið var skrifborð keisarans og skjölin voru ýmist landeignarbréf, gefin fyrir frækna framgöngu, eða loforð um verðlaun, eða þá dómsúrskurðir fyrir þá, sem hegning skyldu hljóta. Talleyrand var að yfirfara þau í seinasta sinn, því þau voru albúin og biðu nú að eins eftir að keisarinn staðfesti þau með undirskriftinni: ,,NAP.'' Að fengnum þeim þremur stöfum voru þau gild og góð. Þegar hér var komið sögu hans hafði Napoleon hætt alveg að skrifa meira en þrjá fyrstu stafina í nafni sínu, undir skipanir og skjöl. Og síðar stytti hann þó undirskrift sína enn meir; rispaði þá bara eitt feykilega mikið ,,N.''

Þegar Talleyrand var að ljúka við syrpuna, kom hann að skjali, sem merkt var ,,Hatzfeld''. Hann las það með gaumgæfni og, — hóstaði svo og ræskti sig. Þetta skjal var ekki eignarbréf, og ekki loforð um endurgjald fyrir frægð og hreysti. Það var skipun um að hegna njósnarmanni og svikara. Talleyrand lagði skjalið á borðið, lauk svo upp læstum kistli, sem stóð á borðinu, og tók þaðan bréf sem hann svo braut saman með ,,Hatzfeld''-skjalinu. Að þessu búnu hallaði hann sér aftur á bak í stólnum og sökti sér niður í hugsanir.

Prinsinn af Hatzfeld var í Berlín og undir vernd Napoleons. Að hann var á lífi enn, var því einu að þakka, að keisarinn treysti honum og trúði. Þó hafði nú Talleyrand hér handa á mflli bréf til Hohenlohe, með eiginhandarriti Hatzfelds, þar sem hann uppfræddi þetta þýska jötunmenni um alt, sem hann mátti, áhrærandi her og herbúnað Napoleons.

Hatzfeld prins hafði nú setið tvo daga í varðhaldi og beðið dómsins, sem, samkvæmt innihaldi bréfsins, gat naumast orðið annað en dauðadómur.

Talleyrand hafði rétt staðið á fætur og var að

teygja sig, þegar hann heyrði byssuskefti varðmannanna úti í ganginum urga steingólfið. Hann hélt því máske að keisarinn væri kominn, haltraði því yfir að dyrunum, lauk upp og gekk út í ganginn. En keisarinn var þar ekki, því hálf myrkt var í ganginum enn. En hann sá konu, sem augsýnilega var í miklum geðshræringum, þó hún hefði sveipað um sig skósíðri kápu og hefði þykka blæju fyrir andliti. Þessi kona var að þreyta við varðmennina um inngönguleyfi, en þeir voru trúrri og þrekmeiri en svo, að blíðmæli eða borgun gæti bugað þá.

Talleyrand lét brýrnar síga, er hann sá þetta. Hann sá að þarna var komin eiginkona hins kærða þjóðhöfðingja, — prinsins af Hatzfeld. Hún kom undir eins auga á Talleyrand og gerði honum þegar heldur valdsmannlega bendingu um að hann skyldi koma til hennar. En bægifótur var nú ekki á því. Hann stóð grafkyr, en lét hana sjá háðsbros flögra um varir sínar. Hún benti honum að koma, í annað sinn, en sýndi minna drembilæti en áður. Hann svaraði með því að látast dusta ryk af frakka sínum og snúa sér frá henni eins og ætlaði hann inn aftur í skrifstofuna.

„Herra minn!“ heyrði hann þá að hún sagði, kveinandi, biðjandi. Drembilætið var farið. Ekkert eftir nema nístandi tilfinningin.

Talleyrand hikaði, gekk svo ögn fram eftir ganginum og benti varðmönnunum að láta konuna koma. Þeir snöruðu byssunum undir eins úr sigti og — hún kom hlaupandi.

„Herra minn!“

„Frú!“

„Keisarinn, — hvar er hann?“

„Keisarinn er ekki hér inni.“

„Eg ætla að bíða eftir honum. Gerið svo vel að lofa mér að bíða þarna í stofunni.“

„Það er langt frá að vera regla vor, frú!“

„Eg er prinsessan af Hatzfeld!“

,,Og eg, er prinsinn de Talleyrand!"

Þau hikuðu. Þau litu hvort á annað. Svo snaraði hún blæjunni frá andlitinu. Hún var forkunnar fögur kona, en nú var hún föl, eins og liðið lík, en stórlæti og einbeittur vilji var skráður í hverjum andlitsdrætti.

,,Herra minn! Eg má til með að hafa tal af keisaranum!"

,,Það er ómögulegt, frú!"

,,En eiginmaður minn, prinsinn, er í haldi, en saklaus. Hans tunga getur ekki beðið keisarann um líkn. Mín tunga þess vegna má til og skal gera það. Bjóðið þér mér sæti, herra minn?

,,Því miður, frú, er enginn stóll hér í ganginum. Það er leiðinleg yfirsjón!"

,,Heyrið mig, herra minn! Í allan dag, síðan klukkan fimm í morgun og þangað til nú, hef eg þreytt við að ná fundi keisarans. Nái eg fundi hans eitt augnablik veit eg, að vantrú hans á trygð mannsins míns hverfur. Viljið þér ekki hjálpa mér til að ná fundi hans? Æ, herra minn! Það er hjartveik, lemstruð eiginkona, — einmana og næstum mátt þrota kvenmaður, sem biður yður um hjálp."

Talleyrand tók upp tóbaksdósir sínar, fékk sér í nefið og virti konuna fyrir sér með langdreginni þolinmæði. Hún hafði verið að gráta, en er hún sá tilfinningarleysi hans, umhverfði hún tárunum á augnabliki í leiftur-glóðir, er hún hélt áfram:

,,Jæja, herra minn! Jæja! Þér sýnið hér hvernig sigurvegararnir í Berlín fara með kvenfólk! Kurteisin franska er þá einber ímyndun! Jafnvel prins hefir ekki gróm af kurteisi að bjóða eiginkonu jafnoka síns í sæmd og mannvirðingum! Æ!"

Hún riðaði til og hefði fallið, að sýndist, hefði Talleyrand ekki brugðið við fljótt og stutt hana.

,,Stól!" sagði hún veiklulega, ,,ljáið mér stól!"

,,Eg skal styðja yður út í vagninn yðar, frú!" sagði Talleyrand.

,,Nei, nei! Það er að líða yfir mig! Styðjið mig í stól þarna inni!" svaraði hún.

,,Jæja," sagði Talleyrand, ,,eg skal styðja yður til sætis í stofu fyrir utan vörðinn, frú! Þar skal yður borgið! Komið þér þá!"

,,Nei, eg bið afsökunar. Mér er að batna," sagði hún.

,,Það er bráður bati! Leyfið mér að láta í ljósi gleði mína!" sagði Talleyrand.

Svo stóðu þau og horfðust í augu ofur litla stund.

,,Eg er einbeitt kona, herra minn!" sagði hún svo, og svaraði Talleyrand því, að hann væri sannfærður um að hún væri fyrirmynd kvenna í þessu sem öðru.

,,Eg er kominn hingað, herra minn", hélt hún áfram, ,,til að tala við keisarann og biðja um líkn fyrir eiginmann minn·"

,,Talleyrand sagðist dást að jafn göfugri fyrirætlun, en syrgja það, að slíkt væri allsendis ómögulegt að færa í framkvæmd!

,,Það skal ekki ómögulegt!" svaraði hún.

Talleyrand var of kurteis til að þræta við frúna. Hann hneigði sig en svaraði engu.

,,Eg skal bíða hér þangað til keisarinn kemur," sagði hún.

Það sagði Talleyrand tilgangslaust alveg, — af því keisarinn kæmi ekki um þessar dyr og ekki inn í stofuna, sem hann hafði setið í! Það sagði frúin góðar fréttir! Úr því keisarinn kæmi þar ekki inn, þá væri ekkert því til fyrirstöðu, að hún færi þar inn og hvíldi sig ofurlítið.

Eitthvað var nú leiðinlegt við þetta fyrir stjórnvitringinn, að láta konu-aumingja máta sig svona herfilega, í byrjun leiksins. En það var nú búið og gert og þá ekki annað fyrir en að brosa og biðja frúna að veita sér þá ánægju að ganga í stofuna og taka sæti. Og svo gengu þau inn í skrifstofu keisarans, og

Talleyrand leiddi hana til sætis, — en svo langt frá skjölunum á borðinu, sem við varð komið.

Svo settist Talleyrand við borðið aftur og bað frúna að fyrirgefa, að sökum annríkis og ritstarfa í sambandi við stjórnmál, gæti hann ekki notið þeirrar ánægju að tala við hana. Prinsessan svaraði engu, og Talleyrand fór að skrifa. Leið svo stund, að ekkert heyrðist nema urgið í pennanum og þramm varðmannanna í ganginum.

,,Þér hafið mikið af skjölum hjá yður á borðinu, herra minn", sagði prinsessan eftir nokkra þögn.

,,Já; heilmikið!" svaraði Talleyrand og laumaðist til um leið að hylja eitt bréfið og tilheyrandi skjal.

,,Þegar keisarinn kemur, þá skrifar hann auðvitað undir þessi skjöl?"

,,Sjálfsagt!"

,,Hérna?"

,,Nei, nei!"

,,Í kveld?"

,,Á morgun!"

,,Ja, þá liggur ekkert á, herra minn! Svo getið þér ekki haft mikið að gera við þessi skjöl. Mér sýnist þau albúin til undirskrifta. Viljið þér ekki koma og sitja hjá mér, og tala við mig svo lítið, *áður en eg fer?*"

Talleyrand sneri sér til prinsessunnar, sem brosti áhyggjufull. Sannarlega var hún falleg kona og tilkomumikil. Samt hikaði hann og sagði hún þá syyrjandi: ,,Hvað um það?"

,,Þegar til alls kemur", hugsaði hann, ,,þá hefi eg nú ekkert meira að gera, og er þá máske rétt að geðjast henni. Lofi eg einhverju, er líka máske meiri von til að eg losist við hana ögn fyrri. Til allrar hamingju kemur keisarinn líklega ekki heim fyrri en eftir klukkustund."

,,Viljið þér þá ekki koma?" Þetta sagði hún í hálf-gamni og — hálf-þykkju. Hann átti að skilja, að hún var óvön við að slík boð væru smáð. Talleyrand

svaraði ekki, en tók eitt bréfið og læsti í kassanum, ýtti svo stólnum frá borðinu, stóð upp, gekk til hennar og settist niður. Hann horfði á hana um stund og segir síðan: ,,Þér eruð sérlega falleg kona og sérlega einkennileg.''

,,Ekki sýnist mér nú að eg hafi mikið aðdráttarafl fyrir stjórnvitringa'', svaraði hún.

,,Eg má fullvissa yður um að það er þvert á móti, frú! Að minsta kosti leyfið þér mér að tala þannig fyrir einn þeirra'', — og hann tók hönd hennar og kysti, um leið og hann hneigði sig fyrir henni.

Prinsessan brosti til hans aftur, og brosið var hálfu meir töfrandi nú en áður. Svo sagði hún spyrjandi: ,,Þér voruð einu sinni stúdent á St. Sulpice-prestaskólanum, prins de Talleyrand.''

,,Já, prinsessa. Eins og yður er kunnugt, var það ekki fyr en eg var orðinn biskup í Autun, að Mirabeau fyrst spáði um framtíð mína.''

,,Og spádómur hans hefir meir en rætst'', svaraði prinsessan. ,,Þér eruð orðinn yfirsmiður að stórveldi, máttarstólpi heillar þjóðar og — hægrihönd Napoleons sjálfs!''

,,Hægt, hægt, frú!'' svaraði Talleyrand. ,,Látum lítið yfir oss. Gætið þess, að vor heilagi faðir, Pius VI., bannaði mér sakramentið. Þó eg hafi náð tímanlegu valdi, þá hefi eg því miður, tapað því andlega.''

,,Svo þér eruð biskup enn, herra minn! Þér eruð enn að kenna oss auðmýkt! Mér fellur vel við yður sem kennara!''

,,Og mér við yður, frú, — mér við yður!''

,,Nú eruð þér að narrast að mér!''

,,Nei, prinsessa. Eg dáist að yður í allri einlægni'', og hann kysti fallegu hendina hennar aftur.

Í þessu heyrðist trumbusláttur og jódynur á strætum úti, er sýndi að keisarinn var kominn heim, — talsvert fyrri en von var á.

Prinsessan stóð upp hvatlega og hlustaði og sagði að þar mundi keisarinn kominn.

,,Nei, nei", svaraði Talleyrand. ,,Það er bara verið að skifta um varðmenn; en — það er annars orðið framorðið." Um leið og hann sagði þetta stóð hann upp og tók kápu prinsessunnar, er hún hafði tekið af sér þegar hún kom inn. ,,Það er ráðlegt fyrir yður, prinsessa, að halda nú heim, en eg skal lofa að tala máli manns yðar við keisarann. Með leyfi....."

,,Kærar þakkir, herra minn! En má eg biðja yður að koma nær ljósinu, með kápuna. Það eru á henni þessi vandræða krókapör! Hvað það er þægilegt að hafa lampa á borðinu! Svona!"

Talleyrand stóð með kápuna útbreidda og sveipaði henni um frúna, þegar hún gaf merki til. Að því loknu sneri prinsessan sér að honum og hélt á skjali, sem hún reif í tvent og — aftur í tvent, áður en hann gat varnað því, og svo lét hún sneplana fjóra flögra niður á gólf.

,,Með þessu hafið þér eyðilagt eiginmann yðar, frú!" sagði Talleyrand.

,,Nei, herra!" svaraði hún, ,,með þessu hefi eg máske bjargað honum."

,,Samt ræð eg yður nú til að fara", sagði Talleyrand. ,,Það er ógerningur að koma fyrir keisarann nú. Eg skal fylgja yður út að vagninum."

,,Eg verð kyr hér!" svaraði hún.

,,Sem yður sýnist, frú! En með yðar eigin höndum hafið þér nú líflátið manninn yðar!"

Það glumdi nú í byssum varðmanna í ganginum, er sannaði að Napoleon var í nánd.

Talleyrand stóð kyr við borðið, en prinsessan gekk fram að dyrunum og staðnæmdist þar.

Nú opnuðust dyrnar og inn gekk maður lítill vexti, fölur í andliti, í gráum, síðum yfirfrakka, með barðastóran, svartan hermannahatt á höfði. Hann víslagði hendurnar á baki sér, gekk hvatlega og taut-

aði fyrir munni sér. Á miðju gólfi nam hann staðar og tautaði í ákafa, en það eina sem áheyrendurnir heyrðu var þetta: ,,Tuttugu og fimm þúsund; já, og þrettán þúsund; — gerir þrjátíu og átta þúsund!"

Prinsessan hafði ávarpað hann undir eins þegar hann kom inn, en hann heyrði hana hvorki né sá. Nú gekk hún til hans og kastaði sér á kné fyrir fótum hans. Hún ávarpaði hann aftur: ,,Herra!"

Í þetta skifti sá hann hana, en ekki rétti hann fram hönd til að reisa hana á fætur og ekki heldur tók hann ofan hattinn. Hann sneri sér að Talleyrand og spurði fljótfærnislega: ,,Hver er þessi kona?"

,,Herra! Það er prinsessan af Hatzfeld", svaraði Talleyrand.

Napoleon sneri sér þá til hennar og spurði:—

,,Hvers æskið þér af mér, frú?"

,,Herra!" svaraði hún. ,,Líf mannsins míns!"

,,Líf mannsins yðar? Þér vitið þó að hann hefir fyrirgert því með drottinsvikum!"

,,Herra!" svaraði hún. ,,Hann hefir aldrei brugðið heit sín við yður, — eg sver það. En, herra, hann er í varðhaldi og getur ekki flutt sitt mál sjálfur. Yður hefir ekki verið sagt rétt frá, um hann. Heyrið mig þess vegna, herra, — konu hans og yðar svikalausa fylgismann. Heyrið orð mín!" Hún riðaði til af nístandi angist og andlitið hennar fallega flaut alt í silfurbjörtum tárum. En Napoleon brá ekki. Hann hrærði hvorki legg né lið og svaraði henni ekki einu orði, en augun sín blágráu, svo ægilega hvöss og nístandi, tók hann aldrei af henni.

,,Æ, herra!" hélt hún svo áfram, ,,ef eg vissi, eða ef eg hugsaði að þér hefðuð nokkra sönnun gegn prinsinum, manninum mínum, *þyrði eg ekki* að biðja honum líknar. En eg *veit* að hann er saklaus. Í allan dag, síðan klukkan fimm í morgun, hefi eg beðið, og beðið, klukkustund eftir klukkustund, til að ná fundi yðar, herra! Lítið á mig, herra! Og sjáið hve þreytt, hve máttvana eg er. Takið til greina

sálarangist mína, og — líknið mér svo, þar sem engin sönnun er til, og gefið mér manninn minn aftur.“

Napoleon svaraði engu enn, en leyt til Talleyrands og rétti fram aðra hendina, eins og vildi hann fá eitthvert svar. Og Talleyrand haltraði með fram borðinu þangað til hann náði í kistilinn, sem hann lauk upp og tók þaðan bréfið banvæna. Hann rétti það að keisaranum, sem aftur rétti það að prinsessunni, sem kraup við fætur hans.

,,Hvers rithönd er þetta, frú?“ spurði hann.

Prinsessan leit á bréfið og í gegn um tárin sá hún eitthvað af innihaldi þess. Hún hvítnaði upp og rak upp nístandi óp, en blaðið flögraði laust úr máttþrota höndum hennar.

,,Er þetta rithönd mannsins yðar, frú?“ spurði Napoleon.

Prinsessan gat ekki svarað, — ekki litið upp. Þungbær ekka-sog voru hennar eina svar.

Napoleon horfði um stund á þessa sorgarsjón, og svo leit hann til Talleyrands og þá var sá svipur á andliti hans, sem fáum auðnaðist að sjá, fyr eða síðar. *Það var meðaumkunarsvipur.*

,,Talleyrand!“

‘‘Herra!“

,,Hvaða aðrar sannanir fyrir drottinsvikum Hatzfeld prins eru í vorum vörslum?“

,,Engar aðrar, herra!“

,,Prinsessa!“ sagði þá Napoleon og laut um leið niður að henni og lagði lófa á vanga hennar. ,,Hérna er bréfið. Stingið því í eldinn á arninum, þarna yfir frá! Þá höfum vér engar sannanir eftir!“

,,Herra!“

,,Jú, jú! Þér trúðuð. Það er auðsætt, að þér vissuð ekki sannleikann. Mér hefði verið kært að hann hefði verið mér eins trúr, eins og þér eruð falleg. Í eldinn með bréfið!“

Án þess að líta upp tók prinsessan hönd Napoleons og þakti hana með kossum, og — tárum. Svo

stóð hún upp, gekk að arninum og varpaði bréfinu á glæðurnar. Hve dýrðleg sjón að sjá það óheilla bréf leysast upp og verða að ösku og reyk!

Talleyrand haltraði til hennar, hneigði sig og sagði; ,,Prinsessa! Maður, sem á konu eins og þér eruð, getur ekki komist hjá að betrast. Leyfið mér að gleðjast með yður.''

,,Eg þakka yður, herra minn!'' svaraði hún.

,,Eg skal sýna keisaranum fram á,'' hélt Talleyrand áfram, ,,hve gagnleg þér væruð í flokki stjórnfræðinga hans.''

,,Eg þakka yður, herra minn!''

Napoleon var sestur að borðinu og tekinn til að rispa ,,Nap'' á skjölin illu og góðu, sem þar voru í dyngju.

Prinsessan nálgaðist hann og tók til máls aftur:

,,Herra!'' Eg þarfnast fyrirgefningar sjálf. Með eigin hendi reif eg sundur skipun yðar um að handtaka manninn minn. Hún liggur í fjórum pörtum fyrir fótum yðar á gólfinu.''

Napoleon leit sem fljótast á sneplana og hélt svo áfram að klóra ,,Nap.''

,,Far vel, herra!'' hélt prinsessan áfram. ,,Með þessu eina góðverki í kveld hafið þér unnið meiri sigur en allur yðar her getur með vopnum unnið. Þér hafið unnið konu til að elska keisaraveldi yðar og veldisstól. Og sú konuást lætur ekki þar staðar numið. Þegar þessi kona segir sögu sína, skulu allar konur í þessu ríki, yfirbugað með vopnum eins og það er, hrópa einum rómi með mér: '*Lifi keisarinn!*' ''

---

## Fern silfurbrúðkaupshjón.

Nítjándi júlí síðastliðinn (1902) var hátíðardagur mikill í Íslendingabygðinni í Argyle í Manitoba. Þá héldu þar silfurbrúðkaup sitt fern hjón, þau Arni Sveinsson og Guðrún Helga Jónsdóttir, Skafti Arason og Anna Guðrún Jóhannsdóttir, Kristján Jónsson og Arnbjörg Jónsdóttir, og Sigurður Kristófersson og Caroline Kristófersson (fædd Taylor). Öll höfðu hjón þessi giftst á árinu 1877, hin fyrstnefndu á Gimli í Nýja Íslandi sama mánaðardaginn sem valinn var nú fyrir silfurbrúðkaupshátíðina (19. júlí), hjónin tvenn, sem næst voru nefnd, í Lundi í Víðinesbygð, N. Ísl., degi síðar (20. júlí), en hjónin síðastnefndu nokkrum vikum áður við varðlínuna, sem á þeim tíma girti um Nýja Ísland í suðri og sett hafði verið að stjórnarboði til þess sökum bólusýkinnar þar að varna samgöngum við það bygðarlag. Hvern mánaðarardag þau Sigurður Kristófersson og kona hans giftust hefir ekki tekist að grafa upp. En sagan segir, að þegar þau hjón voru saman vígð, þá hafi prestur sá, er hjónavígsluna framkvæmdi, staðið öðrum megin varðlínunnar, en brúðhjónin hinum megin.

Silfurbrúðkaupshátíðin var haldin út frá pósthúsinu á Grund, þar sem þau Sigurður Kristófersson og kona hans hafa búgarð sinn. Í rjóðri einu milli trjánna þar skamt frá söfnuðust menn saman til ræðuhalda, en í samkomuhúsi því, er Skjaldbreiður nefnist, þar til annarrar handar, var allsherjar borðhald. Tala gestanna, sem boðið sóttu, var hátt á fimta hundrað. Og var skemtun hin besta, enda mjög



Skafti Arason.



Anna Guðrún Arason.



Árni Sveinsson.



Guðrún Helga Sveinsson.

ríkulega veitt. Silfurbrúðkaupsræðuna hélt séra Jón Bjarnason, og hafði hann forðum gift öll þessi hjón nema þau Sigurð og konu hans. Í ræðu þeirri lagði hann út af 23. Davíðs sálmi. Eftir aðal-borðhaldið mæltu þessir menn fyrir minnum: séra Jón Bjarnason (brúðhjónanna), séra Friðrik J. Bergmann (foreldra brúðhjónanna, sem enn eru á lífi), Magnús Paulson (konungs), Sigtryggur Jónasson (Íslands), Vilhelm H. Paulson (Vestur-Íslendinga) og Tómas H. Johnson (Argyle-bygðar).

Öll voru hjón þessi meðal frumbyggjanna í Nýja



Sigurður Kristófersson.



Caroline Kristófersson.



Kristján Jónsson.



Arnbjörg Jónsson.

Íslandi, og þeir Sigurður Kristófersson, Skafti Arason og Kristján Jónsson voru í sendinefndinni, sem komið hafði frá Ontario 1875 og útvalið Íslendingum þar landnámssvæði. Bústaði völdu þeir sér allir í Víðinesbygð; og eftir að farið var að eiga við kirkjulega starfsemi þar, gjörðust þeir meðlimir Steinkirkjusafnar, sem tók yfir syðra hluta þeirrar bygðar. Sigurður bjó í Húsavík, Kristján í Lundi, Skafti í Kjalvík og Árni í Laufási. Mikið kvað að þeim öllum þá þegar, og konum þeirra eigi síður. Má með sönnu segja, að þau hafi frá upphafi verið meðal hinna allra fremstu

og ágætustu í úrvalaliði vestur-íslensku frumbyggjanna.

Árið 1881 hófst Íslendingabygðin í Argyle. Og voru þeir Sigurður Kristófersson og Skafti Arason meðal þeirra, er hófu þar landnám. Nokkru síðar settust þeir Kristján Jónsson og Árni Sveinsson einnig þar að. Kristján hefir nú æði lengi átt heima í Baldur, kauptúni nokkru sunnan við bygðina íslensku, og rekið þar verslun, en hinir hafa alt til þessa búið á óðalsjörðum sínum, og hefir búskapur þeirra stórkostlega mikið færst út á seinni árum. Stendur hagur þeirra allra með hinum mesta blóma. Allir hafa þeir tekið góðan og mikinn þátt í félagsmálum sveitar sinnar, bæði borgaralegum og kirkjulegum.

Svo kvað Kristinn Stefánsson til silfrbrúðhjónanna á stórhátíðardeginum:

„Ykkar dáð og orka hefir
arð úr grundu hafið mundum.
Fyrirmynd þið sanna settuð
sonum Fróns og þeirra konum.
Lengi vara manndómsmerkin,
mótið og kjarninn, sem þau hljóta,
þar sem forsjá frjáls og mannlund
framaverkin stunda saman."

---

ÁRNI SVEINSSON er fæddur í Tungu í Fáskrúðsfirði 6. nóvember 1851. Foreldrar hans, sem enn lifa, eru þau Sveinn Árnason og Ingibjörg Björnsdóttir. Heimili þeirra er í Íslendingabygðinni í Norður-Dakota hjá Önnu dóttur þeirra og manni hennar Einari Mýrdal. Þau Sveinn og Ingibjörg bjuggu lengi í Tungu áður en þau fluttust til Vesturheims, — eins foreldrar Sveins: Árni Árnason og Ingibjörg kona hans. — Björn, faðir Ingibjargar, móður Árna Sveinssonar, var Ásmundsson, en móðir hennar var Anna Hallgrímsdóttir frá Stóra Sandfelli í Skriðdal.

GUÐRÚN HELGA, kona Árna, er dóttir Jóns frá Gilsárstekk í Breiðdal, sem enn er á lífi og býr í Argyle, Jónssonar Guðmundssonar, er bjó til dauðadags í Kelduskógum á Berufjarðarströnd. Kona Jóns Guðmundssonar var Guðrún dóttir, séra Guðmundar Skaftasonar, prests í Berufirði († 1827). — Móðir Guðrúnar Helgu, konu Árna, fyrri kona Jóns frá Gilsárstekk, var Guðný, er andaðist í Nýja Íslandi

17. des. 1880, dóttir Sigurðar Antóníussonar, sem lengi bjó í Skála á Berufjarðarströnd.

Þau Árni og Guðrún Helga, er síðar varð kona hans, komu ásamt foreldrum hennar til Nýja Íslands beina leið frá Íslandi sumarið 1876.

---

SKAFTI ARASON er fæddur 10. sept. 1850 að Hamri í Laxárdal í Þingeyjarsýslu. Faðir hans var Ari Vigfússon bóndi að Hamri, en móðir Ara, kona Vigfúsar, var Guðrún Aradóttir frá Skútustöðum við Mývatn. Móðir Skafta, kona Ara, var Guðrún Ásmundsdóttir, Davíðssonar á Stóru Völlum í Bárðardal. Móðir Guðrúnar, kona Ásmundar, var Guðný Jónsdóttir frá Mýri í Bárðardal.

ANNA GUÐRÚN, kona Skafta, er fædd 28. okt. 1848 í Hrísey í Eyjafirði. Faðir hennar var Jóhann skipstjóri og bóndi á Ísólfsstöðum á Tjörnesi. Foreldrar Jóhanns voru þau Jón Sigmundsson og Þórunn Nikulásdóttir á Akureyri. Móðir Önnu, kona Jóhanns, var Guðrún, dóttir Þórðar Þorlákssonar, bónda á Skúmsstöðum í Landeyjum, og konu hans Guðrúnar Grímsdóttur.

---

KRISTJÁN JÓNSSON er fæddur í Fellsseli í Köldukinn 29. sept. 1854. Faðir hans, sem enn er á lífi og á heima í Baldur, er Jón Björnsson Kristjánssonar frá Íllugastöðum í Fnjóskadal. Var Björn faðir Jóns að nokkru leyti uppalinn hjá Birni í Lundi, föðurbróður sínum, og var um tíma skrifari hjá Þórði sýslumanni Björnssyni í Garði í Aðaldal. Kona Björns Kristjánssonar, en móðir Jóns Björnssonar, var Álfheiður Einarsdóttir prests Tómassonar frá Grenjaðarstað. Þá er hann kvæntist henni, var hún ekkja séra Gísla Víum. Þau Björn fluttu að Illugastöðum, þegar faðir hans brá búi. Móðir Álfnheiðar hét Guðrún, dóttir Björns sýslumanns Tómassonar á Knútstöðum. Hún var fjórgift. Þrír af mönnum hennar voru prestar, einn bóndi. Börn hennar voru Jón bóndi á Vöglum, séra Hálfdan, faðir Helga lektors, og Álfheiður. — Móðir Kristjáns og kona Jóns Björnssonar (fyrri kona hans) var Margrét Sigríður, dóttir Bjarna Jónssonar, er allan sinn aldur var í Fellsseli þangað til hann vorið 1860 fluttist með foreldrum Kristjáns að Héðinshöfða. Þar andaðist hann skömmu síðar um sumarið 72 ára gamall. Kona Bjarna, móðir Margrétar Sigríðar, var Kristbjörg Arngrímsdóttir frá Sigríðarstöðum í Ljósavatnsskarði. Þau hjón áttu 19 börn.

ARNBJÖRG, kona Kristjáns Jónssonar, er fædd í Hjarðarhaga á Jökuldal 5. október 1858. Faðir hennar var Jón Eyjólfsson bóndi í Hjarðarhaga. En móðir Arnbjargar, kona Jóns, var Guðlaug Sig-

mundsdóttir frá Flögu í Skriðdal, systir Guðmundar gullsmiðs Sigmundssonar, er lengi bjó í Geitdal (um síðastliðna öld miðja). Guðlaug andaðist hjá dóttur sinni og tengdasyni í Baldur 16. febr. 1901, 93 ára gömul. Hún kom með Arnbjörgu dóttur sinni og öðrum börnum frá Íslandi til Nýja Íslands 1876.

---

SIGURÐUR KRISTÓFERSSON er fæddur á Ytri Neslöndum við Mývatn 9. júlí 1848. Foreldrar hans voru þau Kristófer Andrésson og Sigurveig Sigurðardóttir, sem alla sína búskapartíð bjuggu á þeim bæ. Sigurður fór frá Íslandi vorið 1873 og kom til Milwaukee, Wis., þar sem hann hafði aðsetur þangað til 1875, þá er hann slóst í för með erindsrekunum frá Ontario, er sendir voru hingað norður og vestur til að útvelja Íslendingum nýlendusvæði. Kom hann með þeim hinum á þeirri ferð til Winnipeg 16. ágúst. — Eftir að Nýja Ísland hafði verið útvalið af þeim félögum settist hann ásamt þeim Skafta og Kristjáni þar að. Fyrstur Íslendinga ritaði hann sig fyrir bújörð í Argyle eftir að hann og Kristján höfðu kannað þar land í ágústmánuði 1880. En ekki flutti hann þangað búferlum fyrr en 1881.

CAROLINE KRISTÓFERSON, kona Sigurðar, er fædd í Kingston, Ontario, 11. maí 1856. Faðir hennar er William Taylor, sem enn er á lífi í Argylebygð; en móðir hennar, sem látin er fyrir all-mörgum árum, var Isabella Taylor, fyrri kona Williams. William Taylor og John Taylor, sem lengi var umboðsmaður Íslendinga og öllum að góðu kunnur, voru bræður. Sigurður Kristoferson er einn þeirra afar fáu Íslendinga, sem kvænst hafa inn í breskt þjóðerni. En húsfreyja hans hefir nú fyrir löngu lifað sig inn í íslenska þjóðernið.

---

# Eikurnar sjö.

Hér um bil eina ensku mílu í norður frá St. John's latínuskólanum í Winnipeg stendur steinstytta allmikil úr innlendum kalksteini, sem kölluð er ,,Sjöeika'' minnisvarðinn. Má vera, að sumum kunni að þykja fróðlegt að fá að vita um tildrögin að atburði þeim, sem stendur í sambandi við þennan minnisvarða. Um það atvik segir *St. John's Coll. Magazine* það, sem hér kemur:

,,Á fyrstu árum aldar þeirrar, sem nú er þegar liðin, var landsfláki sá, er liggur vestur að Húðsonsflóanum, eins konar leiksvið tveggja voldugra verslunarfélaga, er nefndu sig Húðsonsflóafélagið og Norðvestur-grávörufélagið. Félög þessi höfðu sölubúðir við allar helstu árnar og stöðuvötnin um þvert og endilangt landið, og voru tvær af þeim þar sem borgin Winnipeg nú stendur. Húðsonsflóafélagið hafði byggistöð sína í *Douglas*-virki, er stóð á *Point Douglas*, nálægt þar sem George-stræti er nú. Norðvesturgrávörufélagið hafði sitt aðsetur í *Gibraltar*-virki, sem stóð á norðurbakka Assiniboine-árinnar, svo að segja fast niður við, þar sem hún fellur í Rauðá.

Eftir því sem tímar liðu fram varð samkomulagið milli verslunarstjóra félaganna verra og verra. Sá hét *Miles* Macdonald, er var verslunarstjóri Húðsonsflóafélagsins, og þóttist hann vera rétt kjörinn til valda, þar sem hann væri nýlendustjóri, skipaður af Selkirk lávarði. Aftur á móti var verslunarstjóri Norðvesturgrávörufélagsins friðdómari í Indíána-héruðunum og hafði það umboð frá landstjóra Canada. Árið 1815 var skipaður nýr nýlendustjóri, og hét sá Robert Semple. Veturinn 1815—16 var hann meginið á ferðalagi milli verslunarstaða Húðsonsflóafélagsins. Varð bæði nýlendumönnum og vinnumönnum félagsins býsna skrafdrjúgt um fjandskapinn, sem á milli félaganna var, og gengu ýmsar sögur um það, hvað til bragðs mundi verða tekið.

Hinn 19. júní 1816 fór flokkur manna, hér um bil sextíu að tölu, tilheyrandi Norðvestur-grávörufélaginu, norður sléttuna frá Assiniboine-ánni í nánd við Silfurhæðir, og stefndu í norðaustur, vestanvert við hin núverandi borgartakmörk, til staðar þess, er Kildonankirkjan nú stendur á. Í floknum voru bæði hvítir menn og kynblendingar og nokkurir Indíanar. Höfðu þeir nýlega komið með vistir frá Portage la Prairie handa skipshöfnum félagsins. Um leið og flokkurinn fór norður sléttuna, var hann séður af dreng, er stóð vakt

í varðturni Douglas-virkis, og gaf hann óðar aðvörun um, að kynblendingaflokkur væri í nánd. Semple nýlendustjóri og menn hans tóku sjónpípur sínar og sáu, að flokkur ríðandi manna stefndi að bygðinni. Nýlendustjórinn sagði: ‚Vér verðum að fara og mæta mönnum þessum; látum oss hafa tuttugu menn til fararinnar‘. En tuttugu og átta slógust í förina með honum. Héldu þeir norður þjóðveginn og norður hjá Inksterlæk og ætluðu sér að hafa tal af komumönnum. Þegar nýlendustjórinn og menn hans komu til staðar þess, sem kallaður er „Eikurnar sjö“ (Seven Oaks) og dregur nafn af sjö feykistórum eikartrjám, sem þar standa, beygðu hér um bil um þrjátíu kynblendingar við og slógu hring um þá. Maður að nafni Boucher, vinnumaður Norðvestur-félagsins, hafði orð fyrir félögum sínum. Töluðust þeir við nýlendustjórinn og hann og spurðu hvor annan um, hverju sætti slíkt ferðalag. Var samtal þeirra alt annað en vinsamlegt. Og að fám augnablikum liðnum heyrðust tvö skot, hvort á eftir öðru, og þeir Holte lautenant og Semple nýlendustjóri féllu til jarðar, hinn fyrrnefndi særður til ólífis, en hinn síðarnefndi með voðasári á annari síðunni. Það sló þegar í hina snörpustu orustu. Menn nýlendustjórans voru í þéttri fylkingu, umkringdir af mönnum Norðvestur-félagsins, svo þeir fóru ekki varhluta af kúludrífu fjandmannanna. Á skömmum tíma lágu tuttugu og einn af mönnum nýlendustjórans og einn af hinum dauðir á vígvellinum. Auk Semples nýlendustjóra, sem Indíani nokkur hafði unnið á til fullnustu, voru fallnir meðal annara Holte lautenant, Rogers kapteinn, dr. James White og dr. Wilkinson, prívatritari nýlendustjórans. Grið voru ekki gefin utan einum manni, John Pritchard, er skotið var undan af frönskum manni, er Lavigne hét.

Hinir, sem eftir voru af liði nýlendustjórans, gátu forðað sér undan á flótta inn í skóginn, sem þá náði alla leið ofan á bakka Rauðár. Og þegar þeir komu til virkisins, sögðu þeir tíðindin af því, sem gerst hafði.

Nýlendubúar höfðu flestir flúið í virkið sökum ótta, en urðu nú auðvitað enn skelkaðri en áður. Það var alt á tjá og tundri í virkinu. Menn, konur og börn þjöppuðu sér saman eins og sauðfé, því allir vildu vera innan veggja virkisins, ef ske kynni, að með því yrði forðað lífinu. Þarna beið fólkið angistarfult alla nóttina og bjóst við áhlaupi þá og þegar, en nóttin leið svo, að ekkert áhlaup var gert. Seinna fengu menn að vita, að ófriðarseggirnir höfðu haft beyg af fallbyssu, sem í virkinu var.

Daginn eftir var Richard, er tekinn hafði verið til fanga, sendur til virkisins með þann boðskap til nýlendufólksins, að það yrði að hafa sig tafarlaust á burt. Og eftir að skilmálar þeir, er kumpánar Norðvesturfélagsins settu, höfðu verið nákvæmlega athugaðir, afréðu nýbyggjarnir að yfirgefa bygðina. Með þungum huga fóru þeir nú að búa sig til farar og urðu að hafa hraðan á. Það litla, sem hægt var að hafa með sér af húsmunum og nauðsynlegustu áhöldum, var nú borið á bátana, og lagði svo allur hópurinn á stað ofan Rauðá, niður til Winnipeg-vatns og þaðan til *Norway House*, sem þá var kallað *Jack Fish House*. Þar var fólkið um veturinn. Vorið eftir kom Selkirk lávarður til nýlendunnar og hafði með sér sveit vopnaðra manna. Voru þá sendimenn gerðir út á fund hinna útlægu nýlendumanna, þeim boðið að hverfa heim aftur og þeir fullvissaðir um örugga vernd undir umsjón velgerðarmanns þeirra, Selkirks lávarðar, og var það boð þegið með þökkum.

Athygli bresku stjórnarinnar var nú leitt að fjandskapnum milli þessara tveggja samkeppandi verslunarfélaga, er svo langt hafði gengið, að slegið hafði í blóðugan, mannskæðan bardaga. Lét hún umboðsmann sinn, W. B. Coltmann ofursta, þegar í stað birta stranga skipan um, að allar óeirðir yrðu tafarlaust að leggjast niður. Samkomulagið fór smátt og smátt batnandi uns fullar sættir komust á, og árið

1821 var félögunum steypt saman, og nefndist hið nýja félag Húðsonsflóafélagið.

Fyrir veglyndi greifafrúarinnar af Selkirk var minnisvarði reistur þar sem orustan var háð, og var það gert undir umsjón Sögu- og vísindafélagsins í Manitoba. Á sjötugasta og fimta ársdegi bardagans, hinn 19. júní 1891, var minnisvarðinn afhjúpaður. Var fjöldi manna þar viðstaddur, þar á meðal margir afkomendur hinna gömlu Selkirk-landnámsmanna.

---

## Uppvakning neftóbaksnautnarinnar.

Krýningar-árið vakti upp neftóbaksnautn á Englandi. Heldra fólkið þar og eflaust víðar í hinu breska ríki, er alvarlega að yfirvega, hvort eigi muni best, að fylgja hinu konunglega dæmi og fara að taka í nefið. Dæmi Játvarðar VII. á mestan þáttinn í, að gera þessa tóbaksnautn aftur að tísku meðal höfðingja og hirðmanna.

Það er í frásögur haft, að einn hinn dýrmætasti minjagripur frá hinni nýafstaðinni krýning Játvarðar konungs, sé neftóbaksdósir, búnar gimsteinum. Sagt er og, að gullsmiðir Lundúnaborgar hafi mátt vinna nótt með degi til að fullnægja þörfum stórmenna þeirra, er í þessu vildu fara að dæmi kóngs.

Er það einnig hin fyrsta krýningarhátíð, sem neftóbakið á sinn opinbera þátt í, síðan George IV. var krýndur, en þá nam reikningurinn fyrir neftóbaksdósir, sem lagður var fram fyrir forsætisráðherrann, átta þúsundum punda sterlings.

Aðdáun Játvarðar konungs hvað snertir Georgana, er alkunn, svo hugsanlegt er, að hann æski að endurnýja á sinni stjórnartíð ýmsa siði og dýrð hins forna Englands, í líking við hætti hins svonefnda „neftóbaks-tímabils“ í sögu þess, sem var auðkent

með dæmafárri framför, sigursæld á sjó og landi og nýlendunámi.

Merkilegt er einnig, hvernig neftóbaksbrúkun varð að tísku. Stjórnmálamaður, að nafni Nicat (þaðan „nicotine"), gaf Karli Frakkakonungi neftóbak. Katrín de Medicis, drotning, fýsti fólk til að neyta þess. Síðar varð það, að taka í nefið, innbyrðismerki meðal kristinna manna, sem bannfærðir voru af páfa og dæmdir af kóngi. — Ensk alþýða fékk neftóbak fyrst sem herfang. Þegar Sir George Rooke rændi St. Maris, flutti hann þaðan til Englands margar þúsundir af sekkjum, pokum og tunnum með neftóbaki, og voru vagnhlöss af því seld á strætum úti í Plymouth og Catham, pundið á 4 pence.

Neftóbakið hefir og átt sinn þátt í mannkynssögunni, og ekki síst í sögum margra konunga, prinsa og hirðmanna, og frá mörgu kynnu sum tóbaksílátin að segja, fengju þau málið og gætu opinberað alt það, sem þau hafa verið þögulir vottar að.

Sagnritarinn Gibbon, sem tók í nefið, getur þannig um sína tóbaksnautn: „Eg tók upp tóbaksdósirnar mínar, sló á lokið, tók tvisvar í nefið og hélt áfram ræðu minni, með venjulegu látbragði, líkaminn lotinn áfram og vísifingurinn framréttur."

Friðrik mikli tók svo mikið í nefið, að hann lét fóðra alla vasa sína með leðri, svo hann gæti geymt í þeim tóbak sitt.

Napóleon tók einnig mikið í nefið, eða eyddi miklu neftóbaki, því efi er á því talinn, að hundraðasti hluti þess, er hann eyddi, hafi náð til nefs hans.

Von Moltke, hershöfðinginn þýski, er sagt að hafi eytt pundi af neftóbaki á 3 vikum, er hann var í leiðangri, og var borgað fyrir tóbak hans af almennings fé.

Talleyrand, franskur stjórnvitringur, hélt því fram, að allir stjórnmálamenn ættu að taka í nefið, einkum í því skyni að gefa þeim umhugsunartíma og undirbúning fyrir svör þeirra, og sömuleiðis til þess að

hylja andlitið og þær geðshræringar, sem það birtir, meðan þeir tækju í nefið. Og fyrir hálfri öld síðan þótti ráðgjöfum naumast sæmandi að hefja ráðstefnu án þess að taka fyrst rækilega í nefið. Jafnvel við hólmgöngu-undirbúning tóku menn í nefið, til að styrkja taugarnar.

Mjög mörg fágæt og afar verðhá tóbaks-ílát eru til. Skal hér nefna þrjú þeirra:

Í New York eru varðveittar dósir, sem Þýskalandskeisari gaf Kirkland sjóliðsforingja, sem var fulltrúi Bandaríkjanna við vígslu Kiel-skurðarins. Þær eiga að hafa kostað 5 þúsund dollars.

Í þjóðsafninu (Nat. Mus.) í Washington eru meðal annarra tóbaksdósir úr horni, mjög skrautbúnar með gulli og gimsteinum. Þær voru vinargjöf til U. S. Grants, hershöfðingja og forseta.

Í Canada eiga heima neftóbaksdósir, sem eru vafalaust meðal hinna fegurstu og dýrmætustu í heimi, —dósirnar hans Sir Wilfrids Laurier—, úr rauðagulli og gimsteinum, þannig settum, að þeir mynda konunglega kórúnu og skjaldmerki, ásamt ýmsu öðru skrauti. Voru þær gefnar Sir Wilfrid af konungsefni Breta, prinsinum af Wales, og konu hans, á ferð þeirra um Canada fyrir rúmu ári síðan.

---

# YMISLEGT.

---

## Hvað litirnir tákna.

HVÍTT táknar ljós, sakleysi, gleði, líf, trú og kristilegan hreinleik, hjá dómara réttdæmi, hjá sjúkum auðmýkt, hjá konum skírlífi.

RAUTT táknar eld, kærleik guðs og kóngstign. Hvítar og rauðar rósir tákna elsku og hyggindi. Blóðrautt minnir á starf hjartans og merkir því elsku. — Í illri merking er rautt látið tákna helvíska elsku á hinu illa, hatur, m. fl.

BLÁTT táknar himininn eða hvelfinguna, sannleik af himneskum uppruna, stöðuglyndi og trúmensku.

GULT—gull—táknar sólina, misounn guðs, gifting og trygð. — Í illri merking táknar gulur litur kviklyndi, afbrýðissemi, prettvísi.

GRÆNT er litur vorsins, vonarinnar, einkum upprisu-vonar og sigurs.

FJÓLUBLÁTT táknar ást og sannleik, eða ástríðu og kvöl. Purpuralitur og skarlat merkja hið góða og sanna af himneskum uppruna.

SVART táknar örvænting, myrkur, heimselsku, vonsku, sorg, eyðilegging, dauða.

## Umhverfis jörðina á 33 dögum.

Hinn ímyndaði Mr. Fogg, í sögu Jules Verne's, fór umhverfis hnöttinn á 80 dögum. En George Frances Train gerði betur árið 1890, er hann fór það á 67 dögum, 13 kl.tímum og 3 mínútum og 3 sekúndum. Hann dvaldi einn dag í New York, sem ekki er talinn. En þegar hinni miklu járnbraut um Síberíu verður lokið, styttist til stórra muna sá tími, sem nauðsynlegur er til hringferðar um jörðina. Hinn rússneski járnbrauta-umsjónarmaður hefir samið og birt eftirfylgjandi áætlun um þann tíma, sem framvegis útheimtist til heimshringferðar, sé farið yfir Síberíu, ef ferðasambönd eru tafarlaus og meðal ferðhraði fæst alla leið:

| | |
|---|---|
| Frá St. Pétursborg til Vladivostock | 10 daga. |
| " Vladivostock til San Francisco | 10 " |
| " San Francisco til New York | 4½ " |
| " New York til Bremen | 7 " |
| " Bremen til St. Pétursborgar | 1½ " |
| Samtals | 33 daga. |

## Fjölskyldur og gull „Jónatans."

Samkvæmt hinu tólfta almenna manntali Bandaríkjanna, var fólkstalan þar 1. júní 1900: 84,233,69. Kínverska, breska og rússnesku keisaradæmin eru hinar einu þjóðir, sem telja fleiri íbúa. Þau ráða einnig yfir meira víðlendi.

Í fjárhirslu Bandaríkjanna voru í byrjun septembermánaðar 1902: 575 miljónir dollars í gulli. Er það sagt hið mesta gull, sem saman hefir safnast í eitt, og meira fé en nú er í vőrslum Rússlands, Frakklands, Þýskalands eða Englands. Englendingar voru til

skamms tíma hin „mikla bankaþjóð". En nú fær öll Evrópa fé til láns hjá Bandaríkjamönnum.

## „Yellowstone National Park."

Bandaríkja þjóðþingið gerði með lögum 1872 landsvæði, þekt sem Yellowstone National Park, að almennum skemtigarði. Svæði þetta er um 65 mílur á lengd, frá norðri til suðurs, og um 55 mílur á breidd, frá austri til vesturs. Það liggur aðallega í norðvesturhorni Wyoming-ríkisins, en nær þó að norðan inn í Montana og að vestan inn í Idaho. Garðurinn er 3,312 ferhyrningsmílur að stærð, og því nálega jafnstór og bæði ríkin Rhodes Island og Delaware sameinuð, en hér um bil hálfu minni en ríkið Massachusetts. Klettafjöllin liggja um suðvesturhluta garðsins, en fremur óreglulega. Lægsti gilsbotninn er um 6,000 fet yfir sjávarmál, en aðrir eru um 7,000 til 9,000 fet. Fjallhnúkarnir, sem girða um þessi gil og smádali, eru frá 10 til 11 þúsund fet á hæð. „Electric Peak" (Raftindur), í suðvestur horni garðsins, er 11,155 feta hár. Tindarnir „Langford" og „Turret", báðir á Yellowstone-fjallgarðinum, eru afar háir, báðir yfir 11 þúsund fet.

## Saltið.

Ofurlítið salt tekur tebletti úr bollum.

Ef salt er látið í hvítþvott, gerir það hann varanlegri.

Sem tannduft, heldur salt tönnunum hvítum og tannholdinu rauðu.

Saltvatn er gott við kverkasjúknaði og varnar barnaveiki.

Saltvatn, ef því er haldið í munninum, stöðvar blóðrás eftir tanndrátt.

Tvær teskeiðar af salti í volgu vatni er uppsölumeðal, sem ávalt er við hendina.

Saltvatn er ein hin besta bót við augnaþrota, ef við haft í tíma.

Fótagigt má lækna með því að baða hinn sjúka lim kvölds og morguns úr vel heitu saltvatni.

Kvikni í reykháf, er ekkert betra en að kasta hnefafylli af salti í ofninn eða eldinn.

Blóðspýting frá lungum eða maga má stöðva með smá-inntökum af salti.

Silkiklúta og silkiborða ætti að þvo úr saltvatni og járnbera vota.

Til áburðar er salt nytsamt og ómissandi til skepnufóðurs.

Til matgeymslu og við matseld þekkja menn alment þýðinug saltsins.

---

## Helstu viðburðir og mannalát meðal Islendinga í Vesturheimi.

---

31. maí 1902 tók próf í lögum Stefán Th. Westdal við „National University" í Washington, stjórnarsetri Bandaríkjanna; og hlaut að nafnbót „Batchelor of Laws". Hann er fæddur í Vopnafirði 1873, sonur Jóns Guðmundssonar Westdals og Sigríðar Benediktsdóttur Björnssonar frá Víkingavatni.

21.—26. júní 1902 var 18. ársþing hins ev. lút.kirkjufélag Ísl. *í* Vesturheimi haldið í kirkju Gardar-safnaðar í N.-Dak.

Á síðastliðnu sumri, 1902, tók burtfararpróf við háskólann í Toronto, Ontario, Óli P. Helgason [Baldvinssonar frá Gröf á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu] — las tungumál [classics]. Hann heldur áfram námi við háskólann í Madison, Wis.

14. september 1902 var vígð kirkja Mikleyjarsafnaðar af forseta kirkjufélagsins séra Jóni Bjarnasyni.

Um miðjan september 1902 tók próf í lögfræði við háskólann í Grand Forks í N.-Dak., Gunnlaugur Vigfússon Péturssonar frá Hákonarstöðum í Vopnafirði, og var honum þá veitt málafærslumannsleyfi í N.-Dakota-ríkinu. Hann á heima í Pembina.

4. nóvember 1902 var Pétur J. Skjöld, kaupmaður í Hallson, kosinn þingmaður fyrir neðri deild Norður-Dakota þingsins. Hann er sonur Jóns Péturssonar Skjöld frá Berunesi á Berufjarðarströnd í Suðurmúlasýslu.

---

## MANNALAT.

NÓVEMBER 1901:

10. Oddrún Snorradóttir í Spanish Fork, Utah (úr Njarðvíkum), 73 ára.
29. Jón J. Nesdal í Winnipeg.

DESEMBER 1901:

4. Sveinn Þórðarson (Brynjólfssonar prófasts í Mýrdalsþingum) í Cleveland, Emery Co. í Utah, 74 ára.
10 Friðrika Jakobína Sæmundsdóttir að Eyford í N.-Dakota (af Melrakkasléttu).

12. Lára Halldóra, dóttir Björns Björnssonar bónda í Geysis-bygð í Nýja Íslandi (frá Fremri Svartárdal í Skagafirði), 23 ára.
12. Guðrún Jónasdóttir, kona Jóns Þórðarsonar í Glenboro, Man. (frá Vatni í Haukadal), 60 ára.
13. Anna Katrín Jónsdóttir í Winnipeg, ekkja Stefáns Árnasonar, er lengi bjó á Þórarinsstaðaeyrum við Seyðisfjörð, 72 ára.
14. Eyjólfur Halldórsson í Winnipeg (frá Hlíð í Hörðadal í Dalasýslu), 74 ára.
26. Tómas Jón Jónsson á Krossi í Gimli-bygð í Nýja Íslandi (frá Guðlaugsvík í Strandasýslu) 75 ára.
Sigmundur Bárðarson bóndi í Argyle-bygð (frá Borgarfirði í Mýrasýslu), 68 ára.

JANÚAR 1902.

13. Jón Jónsson í Álftavatnsnýl., 78 ára, og 24. s. mán. kona hans Sigurbjörg Davíðsdóttir, 74 ára (bjuggu allan sinn búskap á Skerðingsstöðum á Reykjanesi).
13. Ólafur Ólafsson í Winnipeg, [ættaður úr Borgarfjarðarsýslu), 55 ára. Flutti vestur um haf 1876.
13. Björgúlfur Vigfússon í Winnipeg
16. Sigríður Gísladóttir (úr Skagafirði), ung að aldri.
27. Hannes, sonur Ólafs Hannessonar bónda á Washington-eynni í Wisconsin-ríki (af Eyrarbakka), 36 ára.

FEBRÚAR 1902:

1. Sigmundur Þorgrímsson við Íslendingafljót í Nýja Íslandi, [af Húsavík], 75 ára.
3. Þórunn Oddsdóttir í Minneota, ekkja Jónatans Péturssonar, er síðast bjó á Hákonarstöðum í Vopnafirði, 92 ára.
12. Brynjólfur Gíslason Sveinssonar bónda í Lóni í Gimli-bygð í Nýja Íslandi (frá Írafelli í Skagafirði), 21 árs.
16. Þórður Tómas Þórðarson á Gimli (frá Stapakoti í Gullbringusýslu), 45 ára.
17. Guðmundur Sveinsson bóndi í Norður-Dakota (ættaður úr Húnavatnssýslu), 71 árs.
19. Jósep Ásbjarnarson bóndi í Minnesota (úr Vopnafirði).
26. Friðbjörg Einarsdóttir í Winnipeg, ekkja Indriða Davíðssonar (þau bjuggu lengst af á Húsavík í Þingeyjarsýslu).

MARS 1902:

5. Ólafur Jóhannesson í Winnipeg.
5. Guðný Ívarsdóttir í Fagradalsnýlendu í Manitoba, ekkja Sveins Bjarnasonar, er lengi bjó á Sauðagerði við Reykjavík, 68 ára,

11. Kristín Hallfríður Ásbjarnardóttir, kona Helga bónda Þórðarsonar í Mikley (frá Hallgilsstöðum í Þingeyjars.).
18. Guðný Árnason, ekkja, til heimilis við Mouse River í Nórður-Dakota (ættuð úr Fljótum).
18. Bergljót Laxdal við Mouse River í N.-Dak. (úr Dalasýslu).
25. Jón Ágúst, sonur Péturs Hansens bónda við Hallson, N.-Dak. Sigurður Símonarson bóndí í Argyle-bygð (frá Steini á Reykjaströnd í Skagaf.), 74 ára.

APRÍL 1902:

9. Rakel Pálsdóttir, færeyisk, kona Þórðar Bjarnasonar í Selkirk, Manitoba.
20. Lilja María, dóttir Tómasar Björnssonar bónda í Geysis-bygð í Nýja Íslandi, 15 ára.
20. Ingigerður Rikkarðsdóttir, kona Einars Vigfússonar í Winnipeg (frá Breiðuvík í Norður-Múlasýslu.

MAÍ 1902.

1. Helga Þorsteinsdóttir, kona Arngríms Jónssonar í Victoria, B. C. (ættuð úr Eyjafirði).
9. Vilfríður Sveinsdóttir, kona Tryggva Benediktssonar Arasonar í Húsavík í Nýja Íslandi (ættuð úr Skagafirði), 24 ára.
14. Hólmfríður Marteinsdóttir, ekkja, móðir Hjartar Sigurðssonar bónda í Argyle-bygð (ættuð úr Mývatnssveit), 74 ára.
15. Guðlaug Jónsdóttir, kona Guðm. Gestssonar bónda við Eyford í N.-Dak. [frá Sauðaneskoti á Langanesi].
19. Jóhannes Benedikt Jónsson í Albertanýlendu, 17 ára.
19. María Jakobína Waddel, dóttir Jóns Gunnlaugssonar bónda á Washington-eynni.
25. Rannveig Þorleifsdóttir í Whatcom á Kyrrahafsströndinni, kona Benedikts Jónssonar Austmans [úr Hjaltastaðaþinghá].
29. Sigríður Jóhannesdóttir í Winnipeg, 37 ára.

JÚNÍ 1902:

8. Jórunn, dóttir Sigurðar Grímssonar bónda við Burnt Lake, Alta.
10. Guðmundur Gíslason í Hjarðarholti í Geysis-bygð í N.-Ísl. [frá Krithóli í Skagafirði], 70 ára.
13. Sigurður Vilhjálmur, sonur Th. Goodman í Seyreville, N. J., 16 ára gamall.
18. Björn Jónsson bóndi í Argyle-bygð. Hans er getið á öðrum stað í þessu almanaki.
17. Ólafur Þorkelsson í Calgary, Alta [ættaður úr Reykjavík], 75 ára.

23. Guðrún Ólafsdóttir, kona Vigfúsar Bjarnasonar bónda í N.-Ísl. [úr Árnessýslu], 57 ára.

JÚLÍ 1902:

10. Jakob Þorsteinsson í Winnipeg [frá Seyðisfirði — ættaður af Suðurlandi], 46 ára.
15. Sigurður Árnason, bæjarfulltrúi í Selkirk, Man. [frá Breiðavaði í N.-Múlas.], 38 ára.
21. Guðrún Sigurðardóttir, kona Árna Hafliðasonar í Selkirk, Man.
26. Skúli Sveinsson í Winnipeg [ættaður úr Skagaf.].

ÁGÚST 1902:

6. Ástríður Árnadóttir, kona Narfa Halldórssonar bónda við Foam Lake, Assa. [ættuð úr Borgarf,s.].
21. Aðalbjörg Eiriksdóttir kona Jóns Jónssonar Söldal bónda við Mountain, N.-Dak. [frá Hvannstöðum á Langanesi], 56 ára.
23. Skúli Jóhannsson í Winnipeg [úr Húnavatnss.], 40 ára.

SEPTEMBER 1902:

28. Guðlaug Bjarnadóttir í Argyle-bygð, ekkja Helga Jónssonar, er lengi bjó á Vindbelg í Mývatnssveit.

OKTÓBER 1902:

2. Stefanía, dóttir Stefáns Þórarinssonar, bónda í Geysis-bygð í Nýja Íslandi, gift enskum manni.
15. Magnús Magnússon á Birkinesi nálægt Gimli [ættaður úr Húnavatnssýslu], 67 ára.
20. Dýrleif Björnsdóttir í Alberta-nýlendunni. Fluttist frá Akureyri hingað vestur 1873. 89 ára.
23. Soffía Jósafatsdóttir Tómassonar stúdents frá Stóru-Ásgeirsá í Víðidal, kona Baldvins Helgosonar [frá Gröf á Vatnsnesi). Futtist vestur um haf 1873.

NÓVEMBER 1902:

6. Björg Runólfsdóttir, kona Jóns Sigurðssonar bónda við Mary Hill-pósthús í Manitoba.



# INNIHALD.

Bls.

Um tímatalið, myrkvar og pláneturnar 1903 2
Páskadagur.......................... 3
20. öldin........................... 3
Til minnis um Ísland.................. 3—4
Tímatalið........................... 5—16
Dufferin lávarður, eftir *Sigtrygg Jónasson*, (með mynd)........................ 17—24
Cecil Rhodes, eftir séra *Fr. J. Bergmann*, (með mynd)........................ 25—33
Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi: Saga íslensku nýlendunnar í bænum Winnipeg, eftir séra *F. J. Bergmann* 34—76
Tveir látn r landnámsmenn: Björn Jónsson og Árni Sigvaldason, eftir séra *Björn B. Jónsson*, (með myndum)............ 77—81
Napoleon sigraður af konu, saga eftir *Balzac*, þýdd úr blaðinu *Success*........... 82—92
Fern silfurbrúðkaupshjón, (með myndum).. 93—98
Eikurnar sjö........................ 98–102
Uppvakning neftóbaksnautnarinnar........102–104
Ýmislegt: Hvað litirnir tákna—Saltið—Umhverfis jörðina á 33 dögum—Fjölskyldur og gull „Jónatans“—„Yellostone National Park“.........................104–106
Helstu viðburðir og mannalát meðal Íslendinga í Vesturheimi...................107–110



# ÁGRIP AF REGLUGJÖRÐ

**um ráðstöfun málma á Dominion-löndum í Manitoba, Norðvestur-territoríunum, og Yukon-landinu.**

---

## Kol

Kolaland fæst til kaups á $10 00 ekran þegar um linkol er að ræða, en $20.00 ekran fyrir harðkol. Engum einstakingi eða félagi er selt meir en 320 ekrur. Auk þess skal kaupandi greiða stjórnargjald (Royalty) af því, sem úr námunum er tekið, eftir því sem ákveðið kann að verða með leyndarráðs-samþykt við og við.

## Málmgrjót (*quartz*).

Einstaklingar, sem eru átján ára að aldri eða þar yfir, og hlutafélög, er hafa „Free Miner's" skírteini, geta látið skrifa sig fyrir námubletti eða lóð.

„Free Miner's"-skírteini er veitt fyrir eitt eða fleiri ár, en þó ekki til lengri tíma en fimm ára gegn því, að einstaklingar borgi fyrir þau $10 00 á ári fyrirfram, en hlutafélög frá $50.00 til $100.00 á ári eftir höfuðstóls-upphæð sinni.

Skírteinishafi, sem uppgötvað hefir málm á einhverjum stað, má afmarka sér þar námulóð sem sé 1500 fet á lengd og 1500 fet á breidd, þannig, að hann setji niður tvo löglega hæla með áritaðri tilkynningu um, að hann hafi numið lóðina, og séu hælarnir sinn við hvern enda lóðarinnar á línunni sem málmæðin liggur eftir.

Sá, sem þannig markar sér námulóð, skal láta rita sig fyrir henni innan fimtán daga e hún er innan tí mílna frá einhverri „Mining Recorder's"-skrifstofu, og skal hann auk þess hafa einn dag fyrir hverja tíu mílna viðbótar-vegalengd eða brot úr tíu mílum. Gjaldið fyrir að rita einhvern fyrir námulóð er $5 00.

Sá, sem þannig hefir numið námulóð, verður að eyða að minsta kosti $100.00 á ári í hana, eða borga þá upphæð til hlutaðeigandi „Mining Recorder" í staðinn. Þegar námuhafi hefir þannig eytt $500 00 eða borgað þá, má hann, eftir að hafa látið mæla lóðina og uppfylt aðra skilmála, kaupa landið fyrir $1.00 ekruna.